# Tuttugasta og áttunda ársþing Þjóðræknisfélags Íslendinga í Vesturheimi

var sett af forseta félagsins, séra V. J. Eylands, í Goodtemplarahúsinu á Sargent Ave., í Winnipeg mánudaginn þann 24. febr., 1947. Var aðsókn all-góð en jókst þó enn meir er ágerðist þingið. Þingið hófst með því, að forseti kvaddi séra Philip M. Pétursson til að hafa orð fyrir þingheimi í bænagerð. Var fyrst sunginn sálmurinn "Þín miskun, ó, guð er sem himininn há". Flutti svo séra Philip hjartnæma bæn og var að henni lokinni sunginn sálmurinn "Faðir andanna".

Var þá þingið formlega sett. Las nú forsetinn langt og íturhugsað ávarp til þingsins við hinar bestu undirtektir.

**ÁVARP FORSETA:**

Háttvirtu fulltrúar og þinggestir!

Eg leyfi mér að bjóða yður velkomna á þetta, hið 28. ársþing Þjóðræknisfélags Íslendinga í Vesturheimi. Megi góð samvinna takast með oss á þingi þessu, og gifta fylgja í störfum vorum.

Frá því er vér komum síðast saman til þings, er annað ár liðið í skaut aldanna. Það var ár, sem í upphafi lofaði miklu, en er því lauk hafði það efnt fátt af fyrirheitum sínum, að því er snertir viðskifti þjóðanna innbyrðis, og farsællega úrlausn heimsmálanna. Yfirleitt var árið róstusamt, eins og jafnan vill verða eftir öll heimsstríð. Hvað stjórnmálin snertir hefir aðaleinkenni ársins verið togstreita heimsveldanna um góss og gæði hinna yfirunnu landa, og að því er talið er, viðleitni til að tryggja friðinn. Það hefir verið ár þjáninga, hungurs og dauða, fyrir fleiri menn, en einkum þó konur og börn en nokkurntíma verður tölu á komið. Sigursælu þjóðirnar, sem heimtuðu og fengu fullkomna uppgjöf óvinaþjóðanna, hafa að því er virðist, ekki verið þess umkomnar að mæta þeirri ábyrgð, sem þeirri uppgjöf og sigri þeirra var samfara. Hefir þetta stafað að nokkru leyti af getuleysi þeirra sjálfra, samtakaleysi sín á milli, og vantrausts hver á annari. Á þessu ári hafa menn víðsvegar um heim, svo sem í Póllandi, Eystrasaltslöndunum, Austurríki, Ungverjalandi, Palestínu, og jafnvel hér á Kyrrahafsströndinni og víðar, liðið sárar þjáningar fyrir þjóðerni sitt. Á þessu ári hefir það einnig sannast, svo sem sjaldan áður í sögunni, að syndir feðranna koma niður á börnunum. Menn njóta þess eða gjalda, hverjir voru forfeður þeirra, eiginleika þeirra og verknaðar.

En þrátt fyrir allar hörmungar ársins, hungur og harræði, verkföll og vágesti ýmiskonar hefir fólki voru, í borgum og byggðum svo vítt sem vitað er, liðið vel. Vonandi er það ekki ofmælt að segja að svo lítur út sem vér Íslendingar, beggja megin hafsins, séum eftirlætisbörn forsjónarinnar. Vissulega hefir ættland vort notið sérstæðrar hamingju og hagsældar nú hin síðari ár. Er það oss öllum sem þangað rekjum ættir vorar hið mesta gleðiefni. Hvað oss sjálfa snertir finnum vér til þess á margan hátt, að það er gott að vera Íslendingur, eða af íslensku bergi brotinn. Sem þjóðarbrot búum vér hér við hagsæld, og njótum virðingar og álits flestra góðra manna. Samtímis því sem minni hluta þjóðarbrot í ýmsum löndum, sæta grimmum ofsóknum vegna uppruna síns, njótum vér þess að vér erum íslenskrar ættar. Er sú afstaða þjóðflokkanna sem vér dveljum með, ekki svo mjög að þakka afrekum sjálfra vor, eins og það er ávöxtur af iðni og manndómi þeirrar kynslóðar á meðal vor, sem nú er óðum að hníga til moldar. Erfðalögmálið vinnur oss þannig í vil, þar sem það er öðrum til hins mesta óláns. Ættum vér þá ekki að þakka forsjóninni fyrir þessa sérstöðu sem vér njótum, og leggja meiri rækt en nokkru sinni fyr við arfinn góða, sem hefir reynst oss svo heilla drjúgur? Með komu yðar á þetta þing, tel ég að þér hafið goldið þeirri spurningu já-yrði yðar.

Þessa daga helgum vér því hugðar efnum vorum sem Íslendingar. Kjörlöndum vorum, og framtíðarlöndum barna vorra vottum vér að sjálfsögðu alla þegnhollustu, nú sem ávalt. Vér vinnum þeim löndum, svo sem eðlilegt er, flesta daga ársins, og áranna. Vér fögnum því að Bandaríkin og Canada

njóta nú meira álits og virðingar um veröld alla, en nokkru sinni fyr. Vér, sem dveljum hér í Canada erum stoltir af því að land vort og þjóð hefir nú náð lögaldri. Upp frá þessu verða þeir, sem gerast borgarar hér í landi, ekki lengur skráðir sem "breskir þegnar" eingöngu, heldur canadiskir borgarar. Einn af fræðimönnum vorum, Walter J. Lindal dómari, hefir fyrstur manna skrifað bók um canadisk borgararéttindi. Hefir bók sú hlotið góða dóma. Er oss það gleðiefni að hann hefir þannig vakið eftirtekt á þjóðflokki sínum og sjálfum sér með bók þessari.

Á þessu þingi minnumst vér þess að stór skörð hafa víða orðið í fylkingu starfsmanna vorra. Verða þau flest vandfylt. Eftir upplýsingum sem ég hefi fengið hjá hr. Guðmanni Levy, fjármálaritara félagsins hafa þessir meðlimir látist á árinu: í Winnipeg: Sigurbjörn Sigurjónsson, Sigtryggur Ágústsson, Mrs. Guðrún Finnsdóttir Johnson, Mrs. Ásta Hallson, Arnljótur Olson. Í Selkirk: Klemens Jónasson, Ólafur Ólafsson, Kristján Pálsson. Í Grafton, N.D.: Ingi Pálsson. Í Edinburg, N.D.: Sveinn Johnson. Í Reykjavík, Man.: Ingvar Gíslason og Mrs. Gíslason, og í Wynyard, Sask.: Jón Jóhannsson. Sveinn Árnason, San Diego; Þorleifur Pétursson, Churchbridge, Jón Sigurdson, Cranberry Lake, B.C. Carl Friðriksson, Vancouver, B.C. Próf. Sveinbjörn Johnson, Chicago. Mrs. Kristjana Johannsson, Glenboro. Jón Arngrímsson, Mozart. Jón Einarsson, Lundar. Chris Johnson, Duluth, Minn.

Að því er snertir starfsmál félagsins á árinu er þess að geta að framkvæmdarnefndin hefir haft 10 fundi. Hefir hún haft til meðferðar, og leitast við eftir mætti að greiða úr þeim málum, sem fallið hafa í verkahring hennar. Vil ég nú þakka nefndinni fyrir lipra og ágæta samvinnu og þá einnig fyrverandi forseta, Dr. Beck, fyrir þann vakandi áhuga sem hann hefir sýnt á málum félagsins nú sem fyr. Auk þess sem hann tók þátt í útbreiðsluferð framkvæmdarnefndar, sem síðar verður skýrt frá, afhenti hann dr. John C. West, forseta ríkisháskólans í Norður Dakota heiðursfélaga skírteini sitt af félagsins hálfu, og flutti ræðu við það tækifæri. Einnig átti hann hlut að því samkvæmt tilmælum forseta, að kveðjur þess voru fluttar við jarðarför prófessor Sveinbjörns Johnson. Þá flutti dr. Beck á árinu ræður um íslensk efni, á íslensku og ensku, bæði í Manitoba, Norður Dakota, og víðar í Bandaríkjunum, og ritaði um þau efni, meðal annars all-ítarlega yfirlitsgrein um íslenskar bókmentir að fornu og nýju í allsherjar rit um heimsbókmentirnar — Encyclopedia of Literature — sem út kom í New York síðastliðið haust. Eins og margoft og maklega hefir verið bent á, stendur félagið og Vestur-Íslendingar í mikilli þakkarskuld við dr. Beck, fyrir áhuga hans og iðjusemi að því að útbreiða þekkingu á íslenskum málum og menningu meðal manna hér vestra. Er oss það gleðiefni að hann sá sér fært að sækja þetta þing og bjóðum við hann sérstaklega velkominn.

Forseti félagsins hefir flutt mál þess í opinberum erindum í Minneota, Minn., Gimli, Árborg, og vestur við Kyrrahaf, í Vancouver og Blaine, Wash. Á síðarnefnda staðnum var honum boðið að flytja aðalræðuna á þjóðminningardegi þeirra Vancouver- og Blaine-búa, sem haldinn var við Friðarbogann í Blaine, 28. júlí s. l. Ásamt öðru bygðarfólki í Blaine hélt deildin "Aldan" þar í bæ, honum og frú hans samsæti, og var forseti ávarpaður fyrir deildarinnar hönd af fyrverandi forseta félagsins, og nú heiðursfélaga þess, séra Albert Kristjánssyni. Virðist þjóðræknismeðvitund þeirra strandabúa vera vel vakandi, enda er þar margt sem minnir á Ísland, en um þau héruð komst prófessor Árni Pálsson svo að orði fyrir nokkrum árum, að þar væri Ísland með viðbót. Varaforseti, séra Philip Pétursson, flutti kveðju frá félaginu í fjarveru forseta á Íslendingadagshátíðinni á Gimli, s. l. sumar, og víðar mun hann hafa túlkað málstað þess við ýms tækifæri.

**Ferð til Hayland og Lundar**

Um undanfarin ár hafði það oft verið ráðgert að einhverjir úr stjórnarnefnd félagsins tækjust ferð á hendur norður til Lundar og ef til vill annara staða, lengra norður með Manitobavatni, þeirra erinda, að reyna að stofna deildir þar. Fyrir ýmsar ástæður varð þó ekki af þessu þar til á s. l. hausti, er séra Egill H. Fáfnis, varaféhirðir félagsins tók nokkra menn upp á sinn eigin eik, sem var spánýr og forkunnar fagur Dodge bíll, og keyrði þá áleiðis norður. Nam hringferðin heiman að og heim til prestsins, rúmlega 450 mílum. Í ferðinni voru auk forseta, og fyrnefnds vara-gjaldkera,

þeir dr. Richard Beck, fyrverandi forseti, séra Halldór E. Johnson, skrifari félagsins, og Gunnar Erlendsson, sem var söngstjóri fararinnar. Skrifarinn, séra Halldór, hefir skrifað glögga og skemtilega frásögu um þessa ferð í Heimskringlu; skal ég því ekki fara út í það mál umfram það, að segja að oss var tekið frábærilega vel alstaðar. Tvær samkomur voru haldnar, sú fyrri á Hayland Hall, 17. september, og á Lundar næsta dag. Á Hayland Hall innrituðust 23 nýir meðlimir í félagið, og tjáðu sig reiðubúna að mynda þar deild, en á Lundar var deild mynduð með 34 meðlimum, og mun sú tala hafa aukist nokkuð síðan fyrir ötula framgöngu skrifara sem var kosinn formaður deildarinnar.

Að öðru leyti en þessu mun tala deilda standa í stað frá því sem var fyrir ári síðan, en um starfsemi þeirra munu skýrslur þær, sem væntanlega verða bornar fram á þinginu, bera vott.

**Útbreiðslumál — Fræðslumál**

Aðalstoðirnar, sem standa undir félagsskap vorum í nútíð og framtíð, eru tvö mál: útbreiðslumálin og fræðslumálin. Þau standa svo þétt saman og eru svo náskyld að erfitt er að greina á milli þeirra. Það kemur ekki að tilætluðum notum að ferðast um bygðir og stofna deildir nema að eitthvað komi á eftir, nema fræðsla fylgi. Ekki er heldur hægt að stofna deildir nema á undan fari nokkur upplýsingarstarfsemi. — Tilgangur þess að mynda deildir, er að sjálfsögðu sá, að þær beiti sér fyrir fræðslustarfseminni hver í sinni sveit. Þetta hafa þær líka gert eftir bestu getu með stofnun og viðhaldi íslensku skólanna, með samkomuhöldum og á annan hátt. En eins og á stendur hjá oss, þar sem allir embættismenn félagsins eru störfum hlaðnir, er þess ekki að vænta að stjórnarnefndin geti haft veruleg afskifti af fræðslustarfsemi deilda félagsins. Það er ljóst, af ýmsum ummerkjum, að deildirnar eiga í þessum efnum við mikla og vaxandi erfiðleika að stríða. Kemur þetta einna ljósast fram í sambandi við laugardagsskólana. Þeir eru sumstaðar á fallanda fæti, annarstaðar eru þeir hættir starfrækslu, og þar sem þeir enn eru starfandi, eru þeir ekki sóttir neitt nálægt því sem vera ætti. Svo er það til dæmis hér í Winnipeg, og nýtur þó skóli vor hér ágætra kenslukrafta eins og á fyrri árum undir stjórn frú Ingibjargar Jónsson. — Stjórnarnefndin hefir ekki horft blindum augum á þessar kringumstæður. Henni er það ljóst að þessi mál eru hjartapunkturinn í starfi voru og framtíð félagsins. Hefir stjórnarnefndin rætt þetta ítarlega á fundum sínum og komist að þeirri niðurstöðu að óumflýjanlegt sé að félagið ráði fræðslumálastjóra með fullum launum, fyrir a. m. k. þriggja mánaða bil ár hvert og helst fyrir alt árið. Hugmyndin er að sú persóna, sem til þessa starfs kynni að veljast, ferðist um bygðirnar, hjálpi til með kennaraval, og skipulagningu á skólunum, og annist önnur fræðslustörf, eftir því sem ástæður leyfa. Vil ég nú benda þinginu á þetta mál, sem eitt hið þýðingarmesta, sem til umræðu kann að koma hjá oss nú. Eg get ekki betur séð, en að í meðferð þingsins á fræðslu- og útbreiðslumálunum felist svar vort við spurningunni: Eigum vér að hætta við, eða að halda áfram að vera Íslendingar í þessu landi?

Í sambandi við fræðslumálin vil ég geta um nýja aðferð, sem nú er farin að tíðkast í ýmsum háskólum og öðrum mentastofnunum í sambandi við kenslu og nám tungumála. Á ég þar við "Linguaphone for Languages" námskeið. Þessi nýja aðferð er í því fólgin að kenna málin með grammofónplötum, sem færustu málsnillingar hinna ýmsu landa tala í. Þannig löguð námskeið hafa nú verið undirbúin í flestum aðal tungumálum Evrópu, og þykja hafa gefist vel. Hugmyndin um að fá slíka tilraun gerða með íslensku, vaknaði hjá mér við það að hlusta á "Óðinn til ársins 1944", sem Eggert Stefánsson söngvari flutti, er hann var hér vestra, og talaði seinna inn í hljómplötu í New York. Fer þar saman snildarlegt mál og framburður. Hefi ég séð þess getið að þessi plata sé nú notuð í ýmsum skólum á Íslandi til að kenna börnum og unglingum framburð móðurmálsins. Eg gerði fyrirspurn í Montreal, þar sem "Linguophone Institute of Canada" hefir bækistöðvar sínar, hvort kostur mundi á að fá kenslu í íslensku tekna upp á plötur. Þeir vísuðu mér til London. En í millitíðinni frétti ég að þetta námskeið væri vel á veg komið. Stefán Einarson, prófessor í Baltimore hefir verið að vinna að þessu með fleirum. Kvað nú vera búið að tala á flestar plöturnar, eitthvað um 30 að tölu. Hefir það verk verið leyst af hendi af sérstökum fagmönnum á Íslandi, og svo prófessor Stefáni sjálfum. Nú hvað vera eftir að semja málfræðilegar skýringar við text-

ana, og svo orðasafn. Vonandi verður þessu starfi lokið á þessu ári. Þetta námskeið er auðvitað miðað við byrjendur. Í öðrum málum, sem þegar hafa verið numin á þennan hátt eignast menn orðaforða, sem nemur um 3000 orðum, sem er langt umfram það, sem nota þarf í venjulegri umgengni við fólk. Á þennan hátt læra menn að tala rétt, hér hjálpast að bæði sjón og heyrn, að því viðbættu að efninu er þannig raðað að nemandinn færist frá hinu einfalda til hins fjölbreyttara eftir föstum reglum, sem gefa hinn besta árangur, sem hægt er að fá við slíkt nám. Eg segi frá þessu vegna þess að ég tel þetta mikilsverðar nýjungar, og ég hefi þá trú að þessi aðferð geti orðið oss til mikils gagns við íslenskunámið hér vestra, bæði meðal sjálfra vor og annara, sem nema vilja tungu vora.

**Icelandic Canadian Club**

The Icelandic Canadian Club hefir enn sem á fyrri árum haldið uppi merki íslenskrar menningar með hinum enskumælandi hluta þjóðarbrots vors, og öðrum, sem hænst hafa að starfi þeirra. Hefir félagið látið endurprenta all-stórt upplag af bókinni "Iceland's Thousand Years". Einnig beitir það sér nú fyrir fyrirlestrahöldum um íslensk mál. Í ár hefir félagið tekið til meðferðar menn og málefni úr vestur-íslenskri menningarsögu. Er það vel til fallið, enda hefir þeirri viðleitni verið tekið vel af fjölda fólks. Einnig starfrækir félagið skóla í íslensku fyrir börn og fullorðna, undir leiðsögn frú Hólmfríðar Danielson. Á árinu stofnaði félagið námssjóð til styrktar fólki af íslensku ætterni sem skarar fram úr að námshæfileikum. Ungfrú Snjólaug Sigurdson er fyrsti styrkþegi sjóðsins.

**Kennaraembætti í íslensku við Manitoba háskólann**

Ný hreyfing hefir hafist á árinu í þá átt að hefjast nú handa um stofnun kennarastóls í íslensku og íslenskum fræðum við háskólann í Manitoba. Glöggar ritgjörðir um málið birtust í jólahefti Icelandic Canadian, eftir þá Dr. P. H. T. Thorláksson, og Walter J. Lindal dómara. Voru greinar þessar þýddar og birtar í báðum vikublöðunum íslensku. Einnig hefir Einar Páll Jónsson skrifað rækilega ritstjórnargrein um málið í Lögberg. Þetta mál er ekki nýtt. Í ársskýrslu sinni til þingsins árið 1925 mælti þáverandi forseti, séra Albert Kristjánsson, á þessa leið í sambandi við umræður um íslenskukenslu yfirleitt: "En því megum vér aldrei gleyma, í sambandi við þetta mál, að engu verulegu takmarki er náð fyr en vér höfum fengið fullkominn kennara vi ðháskólann og framtíð þess embættis trygða. Það krefur máske erfiðis og tíma, og ef til vill fjárframlaga, en þetta er það mál, sem öll vor þjóðræknisviðleitni í þessu landi hvílir á, þegar fram líða stundir". Bráðabirgðanefnd skipuð fulltrúum hinna ýmsu félaga Íslendinga hér í borginni hefir fyrri hluta vetrarins setið nokkra fundi til að ræða þetta mál, og leitast við að leggja undirstöðurnar að almennri samvinnu og samtökum um málið. Hefir sú nefnd ekki enn lokið störfum sínum. Í fyrra fól þingið stjórnarnefndinni með þingsályktunar tillögu "að ljá þessu máli lið sitt á hvern þann hátt, sem henni er unt, í samráði við formælendur þess". Í anda þeirrar samþyktar hafa þeir forseti, vara-forseti, séra Philip Pétursson og gjaldkeri, Grettir konsúll Jóhannsson, setið fundi bráðabirgðanefndar þessarar, og er forseti félagsins nú sem stendur formaður hennar. Væntanlega verður þetta mál tekið á dagskrá þingsins.

**Samvinnumál við Ísland**

Samvinnumál við Ísland hafa verið á dagskrá Þjóðræknisfélagsins frá upphafi, og mun svo verða til vertíðar loka þess, ef að líkum lætur. Á þessari samvinnu höfum vér grætt í liðinni tíð, og þaðan mun oss enn koma styrkur í framtíðinni, ef vér höldum rétt á málum. Þessi samvinna er margþætt. Hér verður fyrst getið um gagnkvæmar gestakomur.

Samgöngur milli Íslands og Vesturheims virðast hafa verið fjörugar á árinu, og gestagangur óvenjulega mikill. Um þessa sem vestur hafa komið á árinu, er oss kunnugt, enda hafa þeir allir komið hingað til Winnipeg, og dvalið hér um lengri eða skemri tíma: Guðmundur Hlíðdal, póst- og símamálastjóri Íslands; Jónas Thorbergsson, útvarpsstjóri, Ingólfur læknir Gíslason og frú Oddný, hinir ágætu fulltrúar Íslands á þinginu í fyrra; Árni Bjarnarson, útgefandi og flugskólastjóri á Akureyri, Guðmundur Jónsson söngvari, sem hér var staddur í sumar er leið á vegum Íslendingadagsnefndarinnar.

Í nóvembermánuði í haust er leið kom hingað norður í sveitir vorar hin glæsi-

lega fjörutíu manna söngsveit, Karlakór Reykjavíkur. Á söngför sinni um meginland Norður-Ameríku hélt kórinn alls 56 hljómleika, fyrir 96.500 áheyrendum, og telst þannig til að 1720 manns hafi að meðaltali sótt hvern hljómleik. Fimm þessara hljómleika voru haldnir á slóðum Vestur-Íslendinga, þrír í Dakota, og tveir hér í Winnipeg. Deildin "Báran" á Mountain, stóð fyrir samsæti á Garðar, og hljómleikum í Cavalier. Hér í Winnipeg stóð stjórnarnefndin fyrir viðtökunum; var sérstök móttökunefnd kosin, mynduð af þeim Árna G. Eggertson, K. C., séra Philip Pétursson, Gretti L. Jóhannson, Guðmanni Levy, forseta, og auk þess af tveim mönnum frá Karlakór Íslendinga í Winnipeg, þeim Steindór Jakobssyni, og Halldóri Swan. Tókst koma kórsins hið besta. — Vara-féhirðir félagsins, séra Egill H. Fáfnis á Mountain, talaði fyrir félagsins hönd á samsætum á Garðar og Fargo, og ef til vill víðar, en í veislu, sem flokknum var haldin hér að skilnaði var fararstjóra hans afhent skrautritað ávarp frá félaginu. Hefir það, og frásögn um komu kórsins að öðru leyti birst í vikublöðum vorum og vísast til þess þar. Vert er þess þó að geta hér, sem er almannarómur, að framkoma kórsins varð Íslandi og íslensku þjóðinni beggja megin hafsins til hins mesta sóma. Hljómurinn af söng þessara manna ómar í sálum þúsundanna mörgu, sem á þá hlustuðu, en þó hvergi eins skært og innilega, eins og í hugum landa þeirra á dreifingunni miklu.

En menn hafa ekki aðeins komið vestur um haf, frá Íslandi, heldur hafa margir á meðal vor farið austur þangað, og sumir dvalið þar langvistum. Er oss kunnugt um þessa: Árna Helgason, ræðismann í Chicago; Sigurð Sigurdsson, kaupmann frá Calgary og frú Sigríði Benónýs frá Berkeley, California Gunnlaug Björnsson, skrautmunasala frá Chicago, George Ostlund, fulltrúa og Maríu Markan, konu hans, dr. Helga P. Briem, ræðismann Íslands í New York og frú og dóttur, og Birgir Halldórsson söngvara, sem nú dvelur á Íslandi. Flest af þessu fólki mun hafa verið í prívat erindagjörðum, eða blátt áfram að skemta sér.

En einstæð í sinni röð var Íslandsför þeirra ritstjóranna, hér í Winnipeg, og ræðismanns Íslands, ásamt konum þeirra. Þessu fólki var sem kunnugt er boðið af ríkisstjórn Íslands og Þjóðræknisfélaginu þar, að sækja Ísland heim á s.l. sumri. Boðsgestirnir komu til Íslands að áliðnu sumri. voru viðtökurnar þar frábærilega vingjarnlegar og höfðinglegar, og ferðin í heild sinni ógleymanleg. Grettir ræðismaður hafði með höndum ávarp til ísl. þjóðarinnar frá félagi voru, sem hann flutti þar; einnig leysti hann af hendi ýms önnur þýðingarmikil erindi fyrir félagið. Báðir ritstjórarnir hafa ritað um ferðina í blöðin, og alt þetta fólk hefir margvíslegri fræðslu að miðla um land og þjóð. Hyggjum vér gott til þeirrar kynningarstarfsemi, sem þessir heiðursgestir Íslands munu vinna á meðal vor, og er hún þegar farin að bera nokkurn árangur.

Undir samvinnumál við Ísland heyrir einnig bréf, sem Grettir ræðismanni barst nýlega frá Jóni Emil Guðjónssyni, fyrir hönd Bókaútgáfu Menningarsjóðs og Þjóðvinafélagsins. Er Vestur-Íslendingum með bréfi þessu boðinn 20 prós. afsláttur á öllum bókum þessara útgáfufyrirtækja, sem ekki eru áður uppseldar, og einnig vilyrði fyrir flutningi bókasendinga, endurgjaldslaust vestur um haf. Ber að þakka þannig auðsýndan hlýhug frá hálfu útgefenda þeirra, sem hér um ræðir.

Ástæða er einnig til að víkja í þessu sambandi að bréfaskiftum sem farið hafa á milli dr. Beck's annarsvegar, og Mentamálaráðs Íslands og Þjóðvinafélagsins hinsvegar, varðandi söfnun sögugagna og þjóðlegs fróðleiks vestan hafs. Er þessum málsaðilum á Íslandi áhugamál að bjarga frá glötun sendibréfasöfnum frá ættland inu, og öðrum skrifuðum fróðleik, sem kynni að geymast í fórum manna hér. Vill forseti minna á, að í þessu máli er sérstök milliþinganefnd starfandi frá ári til árs, og ættu menn að ná sambandi við þá sem þá nefnd skipa, ef þeir vita um eitthvað af þessu tagi, sem menn kynnu að vilja láta af hendi.

Þá er ekki að ófyrirsynju að minnast á það, að enn hefir enginn Vestur-Íslendingur notað hið glæsilega tækifæri, sem Háskóli Íslands hefir boðið, og enn stendur um styrk til dvalar og náms á Íslandi fyrir námsmann eða mær héðan að vestan. Upphaflega var styrkurinn eingöngu bundinn við fyrirhugað norrænunám við Háskólann, en nú mun kostur á að fá þau ákvæði rýmkuð svo fleiri námsgreinar geti komist að, ef Þjóðræknisfélagið og Vestur Íslendingar óska þess.

Á fundum stjórnarnefndar hefir það oft verið fært í tal, að samvinnan milli vor og Íslands sé um of einhliða, að eitthvað ákveðið þurfi á móti að koma frá vorri hálfu hér.. Rætt hefir verið um möguleikana á því að bjóða einhverjum góðum gesti að heiman til sumardvalar hér, og ferðast um bygðir vorar. Vitanlega er hér um svo stórt mál að ræða að nefndin getur ekki ein úr því skorið. Væri því æskilegt að þetta mál væri tekið til umræðu á þinginu, svo vilji fólks komi í ljós í þessu efni.

Til samvinnumála við Ísland má ennfremur telja, að fyrir tilstilli Grettis Jóhannssonar ræðismanns í samvinnu með Canadian Broadcasting Corporation, var kveðja á hljómplötu, frá Þjóðræknisfélaginu og Vestur-Íslendingum, eða í nafni þeirra, send útvarpsstöðinni í Reykjavík, og var hún spiluð þar á Gamlárskvöld. Á plötunni voru fyrst nokkur ávarps- og kynningarorð frá ræðismanninum, tvö lög sem frú Pearl Thorolfsson Johnson söng með undir spili bróður síns, Frank Thorolfsson's, og svo stutt ávarp frá forseta. Ávarp þetta er prentað í Tímariti félagsins sem nú er nýútkomið.

Um nokkur undanfarin ár hefir Ríkisstjórn Íslands sent fulltrúa á Þjóðræknisþing vor, og til þeirra ferða hafa, eins og að líkum lætur, aðeins valist hinir ágætustu menn, og í þetta sinn hefir heldur ekki brugðið frá þeirri venju. Í þetta skifti njótum vér þeirrar einstæðu ánægju að fá sem sendiboða frá Íslandi, mann, sem einnig er heimamaður hér hjá oss, en þannig viljum vér skoða Valdimar Björnsson blaðamann og útvarpsþul frá Minneapolis. Um og eftir stríðsárin dvaldi hann langvistum á Íslandi, og skipaði þar ábyrgðarmikla stöðu fyrir stjórn þjóðar sinnar. Sem hermaður er hann Lieutenant Commander í sjóher Bandaríkjanna, og var hann einnig sérstakur erindreki við sendiráðsskrifstofuna í Reykjavík. — Að Valdimar leysti af hendi glæsilegt starf á Íslandi, er á allra vitorði. Ísland hefir gefið honum það besta, sem það átti til: yndislega konu og stórriddarakross. Vér bjóðum þau Valdimar Björnsson og frú Guðrúnu konu hans hjartanlega velkomin til þings.

**Agnesarsjóðurinn**

Eins og kunnugt er stundar ungfrú Agnes Sigurdson frá Winnipeg, hljómlistarnám hjá heimsfrægum kennara í New York. Ungfrú Sigurdson býr yfir miklum hæfileikum og er frábærilega iðjusöm við námið, enda miðar henni áfram til mikils þroska að dómi þeirra, sem til þekkja. Stjórnarnefnd Þjóðræknisfélagsins hefir beitt sér fyrir opinberum samskotum námsmærinni til styrktar. Hefir það verið henni mikil hjálp að þessu. En nú er samskotaféð útrunnið, en námskostnaður stúlkunnar heldur áfram. Vill forseti benda á þetta mál, og væntir afgreiðslu þingsins á því. Um helgina barst forseta bréf frá kennara ungfrú Sigurdson, Madame Olga Samaroff Stokowsky. Er bréfið dagsett í New York, 19. febrúar og hljóðar svo í lausri þýðing:

"Forseti Þjóðræknisfélags Íslendinga í Vesturheimi.

Kæri herra:

Mér er mikil ánægja að því að geta sagt yður að Agnes Sigurdson, hin unga hljómlistarmær, sem félag yðar hefir svo vel og viturlega tekið að sér að styðja til náms, er að taka framúrskarandi framförum. Það er enginn vafi á því að hún er að verða frábær píanóleikari, og hún ætti að verða tilbúin að koma fram opinberlega næsta ár. Eg vona að þjóðræknisfélagið sjái sér fært að ljúka við hið lofsverða fyrirtæki að styðja hana við námið, og aðstoða hana er hún hefur göngu sína á listabrautinni".

**Minnisvarðamál**

Snemma á árinu var því hreyft af vinum og velunnurum skáldsins, Jóhanns Magnúsar Bjarnasonar, hvort eigi væri unt að reisa honum og konu hans minnisvarða, á svipaðan hátt og áður hafði gjört verið fyrir skáldin Stephan G. Stephansson og K. N. Júlíus. Mun kvenfélagið og deildin í Elfros hafa átt frumkvæðið að þessari hugmynd. Átti hinn nýlátni félagsbróðir vor Jón Jóhannsson nokkur bréfaskifti við stjórnarnefnd vora um þetta mál, og leitaði álits hennar og liðveislu í því sambandi. Stjórnarnefndin tjáði sig málinu vinveitta, og hét því stuðningi sínum, en leit svo á að best færi á því að heimamenn og sveitungar skáldsins héldu áfram frekari undirbúningi, og legðu fram ákveðnar tillögur í því. Mun heimanefndin hafa unnið eitthvað frekar að undirbúningi málsins í samráði við Dr. Kristján Austmann. Enn sem komið er hafa engar tillögur í málinu verið lagðar fyrir nefnd vora.

Myndstytta Leifs Eiríkssonar hefir lengi verið í geymslu. Er nú gott útlit

fyrir að henni verði fenginn virðulegur staður í Washington D. C. Frumvarp til laga um það efni er nú til athugunar í efri málstofu þingsins í Washington. — Framsögumaður frumvarpsins er Senator Milton R. Young. Hefir Guðmundur Grímsson dómari haft mál þetta með höndum sem formaður milliþinganefndar í því. Hefir hann falið einum meðnefndarmanna sinna, hr. Ásmund P. Jóhannsson að gefa frekari skýrslu um málið, og mun hann gera það á þessu þingi.

**Útgáfumál**

Útgáfumál félagsins hafa ekki verið margbrotin á árinu. Er þar eingöngu um að ræða tímarit félagsins, en ritstjóri þess er sem kunnugt er, Gísli Jónsson, fyrverandi prentsmiðjustjóri. Hefir honum ávalt farið ritstjórnin prýðilega úr hendi, og má félagið telja sig lánsamt að njóta starfskrafta hans á þessu sviði. Sú breyting hefir orðið á í sambandi við útgáfu ritsins, að frú P. S. Pálsson, sem undanfarin ár hefir annast söfnun auglýsinga fyrir ritið hvarf frá því starfi samkvæmt eigin ósk, en í hennar stað var Carl Hallson, formaður Icelandic Canadian Club ráðinn til þess verks. Er gott til þess að vita að vinsældir og útbreiðsla tímaritsins fer vaxandi, einkum á Islandi. Í þetta sinn eru 2200 eintök prentuð af ritinu, en af því upplagi verða 750 eintök send útisölumönnum á Íslandi samkvæmt pöntun þeirra.

Eins og kunnugt er hefir sérstök sjálfboðanefnd annast ritun og útgáfu á "Sögu Íslendinga í Vesturheimi", en bækurnar hafa komið út undir nafni félagsins, og hefir félagið eins og sjálfsagt var, stutt að útbreiðslu þeirra. Þrjú bindi sögunnar hafa komið út, og hefir söguritarinn, skáldið Þorsteinn Þ. Þorsteinsson nú fjórða bindið í smíðum. Vonandi verður sjálfboðanefndinni unt að halda áfram þessu þarfa útgáfufyrirtæki uns því er lokið með frásögu um allar helstu bygðir vorar hér í landi.

**Breyting á þingtíma**

Eitt þeirra mála, sem stjórnarnefnd félagsins var falið á hendur að athuga á síðasta Þjóðræknisþingi, var um breytingu á þingtíma. Í þessu máli leggur stjórnarnefndin fram rökstutt álit, sem hljóðar svo:

"Að athuguðu máli sér nefndin sér ekki fært að leggja til að breyta þingtímanum að svo stöddu. Liggja til þess ýmsar ástæður, en þó þessar fyrst og fremst:

1. Undirtektir deildanna á síðasta ári, sýndu yfirleitt, að þær eru því mótfallnar að nokkur breyting verði gerð, enda þótt tvær deildir mæltu með slíkri breytingu.

2. Það myndi erfitt að velja tíma fyrir þingið sem öllum væri hentugur. Annir eru sumstaðar mestar, þegar bygðarbúum annarsstaðar veitist nokkur hvíld frá störfum.

3. Að sumarlagi, sérstaklega fyrri part sumars, myndi slíkt þinghald koma í bága við allan fjölda af skógargildum og samkomum sem víðsvegar eru haldnar, svo sem kirkjuþing, þjóðræknissamkomur, og svo framvegis.

**Önnur mál**

Óþarft er að ræða hér um fjárhag félagsins þar sem prentaðar skýrslur féhirðis, fjármálaritara og skjalavarðar bera þess vott hvernig hann stendur, og hann er besta lagi.

Milliþinganefnd í húsbyggingarmálinu, sem kom til umræðu á þingi í fyrra, mun leggja fram skýrslu sína. Er sú nefnd skipuð þeim Ólafi Péturssyni, Jóni Ásgeirssyni, og Árna G. Eggertssyni, K. C. Er sá fyrstnefndi formaður nefndarinnar.

Minjasafnsmálið og söfnun þjóðlegs fróðleiks, sem áður hefir verið drepið á, þyrftu að koma til umræðu og frekari framkvæmda á þessu þingi.

Að því er snertir málið um afganginn af varnarsjóði Ingólfs Ingólfssonar, sem á þingi í fyrra var vísað til stjórnarnefndar, að hún héldi áfram að afla sér frekari upplýsinga um það hjá lögfróðum mönnum, er þess að geta að nefndin hefir í því efni gert eins og fyrir hana var lagt. Er nefndin viðbúin að leggja fram lögfræðilegt álit um meðferð máls þessa, ef þingið krefst þess að það sé enn að nýju tekið til umræðu.

Á þinginu í fyrra var því hreyft hvort ekki væri ákjósanlegt að meðlimir Þjóðræknisfélagsins bæru félagsmerki á brjósti eins og tíðkast um ýms önnur félög. Var stjórnarnefndinni falið að athuga það mál. Hefir nefndin fengið þær upplýsingar í málinu að hægt er að fá slíkt merki búið til, er beri innsigli félagsins í litum, eins og það sem prentað er á bréfsefnum

þess. Mundi merki þetta með hnapp eða nælu, eftir því sem við á, kosta $1.50 stykkið. Geta menn nú rætt málið samkvæmt þessum upplýsingum.

**Niðurlagsorð**

Með skýrslu þessari hefi ég leitast við að gefa yfirlit yfir starfsmál félagsins, þarfir þess, og þau mál, sem mest eru aðkallandi að því er framtíðina snertir. — Ætti það að vera ljóst af lestri þessum, að "starfið er margt", megi hitt líka reynast satt er til umræðu kemur og afgreiðslu málanna, að "eitt er bræðrabandið" á meðal vor. Setjum oss þá það mark, háttvirtu þingmenn og konur, að vinna að úrlausn allra mála vorra, með elju og alúð, með það eitt fyrir augum hvað oss er til sóma sem félagi, og þjóðarbroti voru hér yfirleitt til sæmdar. Vil ég vinsamlega mælast til þess að erindrekar og fulltrúar veiti störfum þingsins óskifta athygli þessa daga, að menn sitji alla fundi þingsins og hverfi ekki frá störfum nema brýna nauðsyn beri til.

Áfram þá til starfs og sóknar í nafni íslensks manndóms og þjóðerniskendar!

V. J. Eylands.

Dr. Beck gerði þá tillögu að skýrsla forseta sé viðtekin og honum vottað þakklæti fyrir hana og velunnið starf. Tillagan studd af Ásmundi Jóhannsyni og samþykt með almennu lófataki.

Þessu næst skýrði forseti frá, að þar sem skrifarinn, séra H. E. Johnson væri ekki viðstaddur vegna forfalla væri vara-skrifarinn. Jón Ásgeirsson beðinn að lesa þingboð það, sem birst hafði í íslensku vikublöðunum. Varð hann við þeirri kvöð.

Þingboðið var á þessa leið:

Tuttugasta og áttunda ársþing Þjóðræknisfélags Íslendinga í Vesturheimi verður haldið í Good Templara húsinu við Sargent Avenue í Winnipeg, 24., og 25. og 26. Febrúar 1947.

Áætluð dagskrá:

1. Þingsetning
2. Ávarp forseta
3. Kosning kjörbréfanefndar
4. Skýrslur embættismanna
5. Skýrslur deilda
6. Skýrslur milliþinganefnda
7. Útbreiðslumál
8. Fjármál
9. Fræðslumál
10. Samvinnumál
11. Útgáfumál
12. Kosning embættismanna
13. Ný mál
14. Ólokin störf og þingslit.

Þing verður sett kl. 9:30 á mánudagsmorguninn 24. febrúar, og verða fundir til kvölds. Gert er ráð fyrir að Valdimar Björnsson, sem verður fulltrúi ríkisstjórnar Íslands á þinginu, flytji ávarp sitt eftir hádegið þann dag. Um kvöldið heldur Icelandic Canadian Club almenna samkomu í Fyrstu lútersku kirkju, verður Carl Freeman, búnaðarráðunautur frá Fargo, áður þjónandi í sjóher Bandaríkjanna á Íslandi, aðalræðumaður þeirrar samkomu.

Á þriðjudaginn verða þingfundir bæði fyrir og eftir hádegi. Að kvöldinu heldur "Frón" sitt árlega Íslendingamót, nú eins og í fyrra í Fyrstu lútersku kirkju. Valdimar Björnsson flytur aðal erindið.

Á miðvikudaginn halda þingfundir áfram og eftir hádegið þann dag fara fram kosningar embættismanna. Að kvöldinu verður almenn samkoma í Sambandskirkjunni á Banning Street. Dr. Richard Beck, fyrverandi forseti félagsins flytur erindi við það tækifæri. Verður þar einnig söngur og fleira til skemtunar.

Winnipeg, Man., 10. febrúar 1947
Í umboði stjórnarnefndar
Þjóðræknisfélagsins

**Valdimar J. Eylands, forseti**
**Halldór E. Johnson, ritari**

Tillaga J. J. Bíldfells að forseti skipi dagskrár- og kjörbréfanefndir. Till. studd af séra Philip Péturssyni og samþykt.

Skipaði forseti þá þessa í dagskrárnefnd:

Séra Philip M. Pétursson
Miss Elín Hall og
Mr. J. J. Bildfell.

Í kjörbréfanefnd voru þessir skipaðir:

Mr. Einar Haralds
Mr. Jón Halldórsson og
Mrs. B. E. Johnson.

Þá lagði féhirðir. Mr. G. L. Jóhannsson fram sína skýrslu.

**Reikningur féhirðis**

yfir tekjur og útgjöld Þjóðræknisfélags Íslendinga í Vesturheimi frá
17. febr. 1946 til 15. febr. 1947

TEKJUR:

17. febr. 1946:

| | |
|---|---|
| Á Landsbanka Íslands | $ 1.80 |
| Á Royal Bank of Canada | 1,224.38 |
| Frá fjármálaritara | 582.06 |
| Fyrir auglýsingar XXVI. árg. Tímaritsins | 80.25 |
| Fyrir auglýsingar XXVII árg. Tímaritsins | 2,066.50 |
| Fyrir auglýsingar XXVIII árg. Tímaritsins | 125.00 |
| Fyrir skólabækur | 64.30 |
| Ágóði af Laugardagsskólasamkomu | 54.51 |
| Bankavextir og gengishagnaður | 5.33 |
| Gjöf í Rithöfundasjóð | 55.00 |
| Frá Þjóðræknisfélagi Íslendinga, Reykjavík, fullnaðargreiðsla fyrir Tímarit | 1,747.77 |
| 652 Home Street | 659.05 |
| Samtals | $6,665.95 |

ÚTGJÖLD:

| | |
|---|---|
| Ársþingkostnaður | $ 209.54 |
| Kostnaður við Tímaritið: | |
| Ritstj. og ritlaun XXVII. árg. | $ 303.00 |
| Prentun, XXVII. árg. | 1,154.36 |
| Umboðsþóknun, | 536.68 |
| Fragt, vátrygging | 40.59 |
| Prentun XXVIII árg. — að parti | 750.00 |
| Umboðsþóknun | 31.28 |
| Til kenslumála | 58.85 |
| Ferða- og útbreiðslukostnaður | 58.50 |
| Til móttöku gesta | 133.40 |
| Banka-, síma-, og annar kostn. | 40.88 |
| Prentun og skriffóng | 26.35 |
| Þóknun fjármálaritara | 58.34 |
| Samtals | $3,401.77 |
| C.N.R. Bonds, Dominion guaranteed | 2,044.43 |
| Á Landsbanka Íslands | 1.80 |
| Á Royal Bank of Canada | 1,217.95 |
| Samtals | $6,665.95 |

Grettir Leo Jóhannsson, féhirðir

Framanritaðan reikning höfum við endurskoðað og höfum ekkert að athuga við hann.

Winnipeg, Canada, 17. febrúar, 1947.

Steindór Jakobsson
Jóhann Th. Beck

**Skýrsla Byggingarumboðsmanns**

1. janúar 1947.

Bygging 652 Home St., borguð að fullu .....$11,506.10

| | | |
|---|---|---|
| January 1st, Debit Balance | $ 106.33 | |
| Rents Collected | | $ 2,733.85 |
| Rental Arrears Collected | | 30.00 |
| Icelandic Celebration Committee | | 30.00 |
| Mortgage Payment to Mrs. R. Pétursson | 512.50 | |
| City of Wpg. Taxes, '46 | 438.67 | |
| Decorations, Repairs, Supplies | 240.43 | |
| Fuel | 428.40 | |
| Light and Power | 167.18 | |
| Water | 110.21 | |
| Management | 120.00 | |
| Sundry | 11.08 | |
| Paid to Icelandic National League | 659.05 | |
| | $2,793.85 | $ 2,793.85 |

Ólafur Pétursson, umboðsmaður

Yfirskoðað og rétt fundið, 17. febr., 1947.

Jóhann Th. Beck
Steindór Jakobsson

**Skýrsla fjármálaritara yfir árið 1946**

INNTEKTIR:

| | |
|---|---|
| Frá meðlimum aðalfélagsins | $180.40 |
| Frá deildum | 382.00 |
| Frá sambandsdeildum | 21.00 |
| Seld Tímarit | 24.00 |
| Samtals | $607.40 |

ÚTGJÖLD:

| | |
|---|---|
| Póstgjöld undir bréf og Tímarit | $ 25.34 |
| Afhent féhirði | 582.06 |
| Samtals | $607.40 |

Guðmann Levy, fjármálaritari.

Yfirskoðað og rétt fundið, 17. febrúar 1947. —

Jóhann Th. Beck
Steindór Jakobsson.

**Skýrsla skjalavarðar yfir árið 1946**

Tímarit óseld í Winnipeg:

I-XXVII árg. hjá skjalaverði, eint. 5,625

Tímarit á Íslandi:

Frá I-XXI árg. eru talsvert mörg eint. óseld. XXII-XXIII árg. seldir. — Engar nákvæmar skýrslur frá Íslandi hafa komið á árinu viðvíkjandi eldri árg.

Skýrsla yfir XXVII árg. Tímaritsins:

| | |
|---|---|
| Til heiðursfélaga, rithhöfunda o. fl. | 68 |
| Til umboðssölu á Íslandi | 750 |
| Til auglýsenda Tímaritsins | 200 |
| Til fjármálaritara | 1065 |
| Hjá skjalaverði og fjármálaritara | 217 |
| | 2300 |
| Þjóðarréttarstaða Íslands —sérprentun | 300 |
| Svipleiftur samtíðarmanna | 114 |

Baldursbrá:

281 eintök af innheftri Baldursbrá eru í umsjá Mr. B. E. Johnson, ráðsmanns Baldursbrár.

Bókasafn:

Deildin "Frón" hefir umsjón yfir aðal bókasafni félagsins og mun hún leggja fram skýrslu því viðvíkjandi.

Winnipeg, Man., 17. febrúar, 1946.

Ó. Pétursson, skjalavörður.

Dr. R. Beck gerði þá tillögu, að skýrslu féhirðis sé vísað til væntanlegrar fjármálanefndar. Till. studd af Jóni Jónssyni og samþykt.

Skýrsla fjármálaritara lesin af Mr. Gudmann Levy. Skýrlunni vísað til væntanlegrar fjármálanefndar samkvæmt tillögu A. P. Jóhannsonar, sem Einar Sigurðson studdi.

Þá las Olafur Pétursson, umboðsmaður húseignarinnar no. 652 Home Street, Winnipeg, sína skýrslu varðandi húseignina. — Sjá þingskjal no. 2. Gerði G. L. Jóhannsson það að sinni till., að skýrslunni sé vísað til væntanlegrar fjármálanefndar. Tillöguna studdi Halldór Gíslason og var hún samþykt.

Þá lagði skjalavörður, Olafur Pétursson, fram sína skýrslu. — Sjá þingskjal no. 2.

Gerði dr. Beck þá tillögu að skýrslunni sé vísað til væntanlegrar fjármálanefndar. Hlaut till. stuðning Magnúsar Gíslasonar: Samþykt.

Las nú formaður dagskrárnefndar, séra P. M. Pétursson, tillögur þeirrar nefndar — þingskjal no. 3.

Dagskrárnefnd leyfir sér að leggja til að eftirgreind mál verði tekin til meðferðar á 28. ársþingi Þjóðræknisfélags Íslendinga í Vesturheimi:

1. Þingsetning
2. Ávarp forseta
3. Kosning kjörbréfanefndar
4. Kosning dagskrárnefndar
5. Skýrslur embættismanna
6. Skýrslur deilda
7. Skýrslur milliþinganefnda
8. Útbreiðslumál
9. Fræðslumál
10. Kennaraembættið í íslensku við Háskóla Manitoba-fylkis
11. Fjármál
12. Samvinnumál við Ísland
13. Námssjóður ungfrú Agnesar Sigurdsson
14. Minnisvarðamál
15. Útgáfumál
16. Bókasafnið
17. Kosning embættismanna
18. Ný mál
19. Ólokin störf og þingslit.

Nefndin mælir með því að þingið taki kveðjum fulltrúa ríkisstjórnar Íslands og annara gesta á þingfundi á mánudegi 24. Febrúar, kl. 3 e.h.

P. M. Pétursson J. J. Bildfell
Elin Hall

Tillaga Jóns Jónssonar, sem Thorsteinn Gíslason studdi, að skýrslan sé viðtekin eins og hún var lesin. Till. samþykt.

Tillaga Ásmundar P. Jóhannssonar, sem Guðmundur Jónsson studdi, að fundi sé frestað til kl. 2 e. h., samþykt.

Annar fundur Þjóðræknisfélagsins settur kl. 2 e.h. Varaskrifari las fundargjörð fyrsta fundar og var hann samþyktur.

Þá las Mr. Einar Haralds bráðabirgðar skýrslur kjörbréfanefndar, og var hún samþykt án breytinga. — Þingskjal no. 4.

**Skýrsla kjörbréfanefndar**

"GIMLI" — Gimli:

| | Atkv. |
|---|---|
| Guðmundur Fjeldsted | 20 |
| Mr. H. G. Sigurdson | 20 |
| Mrs. H. G. Sigurdson | 20 |

"ISLAND" — Morden:

| | Atkv. |
|---|---|
| T. J. Gíslason | 12 |
| Jónatan Thomasson | 12 |

"SNÆFELL" — Churchbridge:

| | Atkv. |
|---|---|
| Einar Sigurdson | 19 |

"ESJAN" — Árborg:

| | Atkv. |
|---|---|
| Mrs. Herdis Einarson | 14 |
| Mrs. Aldis Pétursson | 15 |
| Sigurður Einarson | 15 |
| Magnús Gíslason | 15 |

"BÁRAN" — Mountain:

| | Atkv. |
|---|---|
| C. Indriðason | 20 |
| H. T. Hjaltalín | 20 |
| G. J. Jónasson | 20 |
| Björn Stefánson | 20 |
| H. Olafson | 20 |
| Guðm. V. Hjálmarson | 13 |
| Dr. Richard Beck | 13 |

"GRUND" — Argyle:

| | Atkv. |
|---|---|
| Margrét Jósephson | 20 |
| G. J. Oleson | 20 |

"BRÚIN" — Selkirk:

| | Atkv. |
|---|---|
| Einar Magnússon | 19 |
| Mrs. Ásta Erickson | 19 |

"LUNDAR" — Lundar:

| | Atkv. |
|---|---|
| Mrs. Sveinson | 15 |
| Mrs. Kristín Pálsson | 15 |

"FJALLKONAN" Wynyard:

| | Atkv. |
|---|---|
| Pétur Thorsteinsson | 20 |

"STRÖNDIN" — Vancouver:

| | Atkv. |
|---|---|
| Einar Haralds | 7 |

Einar Haralds, Kristin Johnson
J. Halldórson.

Enginn mættur fyrir þessar deildir: — Iðunn, Ísafold og Skjaldborg.

Dr. R. Beck lagði til, að skýrslan væri samþykt eins og lesin. Á. P. Jóhannsson studdi tillöguna: Samþykt.

Las nú skrifarinn séra H. E. Johnson, ársskýrslu sína. — Þingskjal no. 5. —

### Skýrsla ritara

Það voru haldnir tíu fundir í stjórnarnefndinni á árinu. Allir voru þessir fundir reglulega sóttir af þeim nefndarmönnum, sem búa í Winnipeg og grendinni. — Nefndarmenn aðeins fjarverandi þegar aðrar annir og fjærvera úr borginni hamlaði, og þó sjaldan.

Samvinna yfir höfuð að tala góð í nefndinni og forseti rækt starf sitt af alúð og áhuga.

Skrifari ritaði öllum deildum bréf varðandi Agnesarsjóð og fleira.

H. E. Johnson.

Mr. Á. P. Jóhannsson gerði þá tillögu, að skýrsla ritara sé samþykt, Mr. Einar Haralds studdi till.: Samþykt.

Þá voru framlagðar skýrslur deilda.

Forseti Icelandic Canadian Club, Carl A. Hallson, las langa og ítarlega skýrslu. Þingskjal no. 6.:

### Report of The Icelandic Canadian Club

Mr. Chairman, Delegates, and guests. I bring you greetings and good wishes from the Icelandic Canadian Club.

It has been noted that Delegates and visitors to the Annual Convention of the League are keenly interested in the activities and various projects carried on by the Icelandic Canadian Club. It is, therefore, with pleasure that we once again present to you a resume of our activities and plans.

During the year, 7 Executive meetings and 7 General meetings have been held These have been well attended with from 50 to 120 members and guests present. Since the opening of the Fall session, meetings have been held in conjunction with the Lectures given at the Icelandic Canadian Evening School.

Three Socials have also been held in the First Federated Church parlors, where a variety of entertainment has been provided, such as, musical skits; quiz programs; films; vocal and instrumental music, and, of course, refreshments. At these Socials, the Club has been happy to play host to a large number of out-of-town students of Icelandic extraction, who have come to consider the Club as a centre for their gatherings. Many of these students have joined the Club.

About 600 people attended the annual Concert of the Club, held Feb. 25th, in the First Lutheran Church, when Hon. Nels G. Johnson, Attorney-General of North Dakota, was the Guest Speaker. There was also a varied musical program, and selections of Poetry, spoken in Icelandic. The Social Committee held a reception in the Church Parlors, following the Concert

at which approxmately 100 guests enjoyed refreshments and a social hour together.

The Closing Concert of the Icelandic Canadian Evening School was held on May 14th, also well attended and enthusiastically enjoyed by all present.

The Club has taken an active part in citizenship affairs and has supported various projects of other organizations. These are: —

1. A committee composed of the President, Carl A. Hallson; Judge W. J. Lindal, Mrs. H. F. Danielson, and Paul Bardal has attended meetings held to discuss the proposed Chair of Icelandic at the University of Manitoba.

2. A committee composed of Paul Bardal, Mrs. H. F. Danielson, and Hannes J. Lindal. has been functioning for the purpose of discussing ways and means of establishing a Fund for building a Concert Hall or some type of Community Centre for the use of Icelanders here, which, I'm sure would prove a valauable asset in strengthening our Community activities. This Committee has met with Mr. O. Petursson, chairman of the committee which is handling this matter for the League. We understand that Mr. Petursson will be giving a report on this to the Convention.

3. The Club supported the Tea and "Drive for Funds" in aid of the "Save the Children Fund" which netted $650.00. Since this Tea which was held on April 18th, Mrs. Danielson, who represented the Club on this project, has received donations totalling $160.00 from people of Icelandic descent, outside of Winnipeg. This sum has been sent to the Canadian Committee in Toronto.

**The Various Projects of the Club**

1. The Icelandic Canadian Magazine has been published for 4½ years, and is becoming incereasingly popular. The magazine contains a variety of literature of a high standard, including valuable historical information pertaining to the Icelandic pioneers here, and their descendants as well as articles on the History and Culture of Iceland. About 900 pictures of service men and women, students, and others in the news, have been published to date. Over $1800 has been spent for "cuts", the cost of which is borne entirely by the publication. Of course, it would be impossible to render such service to the public, were it not for the fact that all those who work on this project donate their time and their talents, free of charge. Those serving on the Magazine Committee are;— Judge W. J. Lindal, Holmfridur Danielson, Gissur Eliasson, Axel Vopnfjord, Mattie Halldorson, Stefania Eydal, Grace (Reykdal) Thorsteinson, and Hjalmur F. Danielson. We owe a lot to these people for their splendid contributions.

2. Icelandic Canadian Evening School. Like the Magazine, the work of the School is receiving enthusiastic tributes from the public. By the end of this season, thirty lectures will have been given on subjects of vital interest to us of Icelandic descent. Mrs. H. F. Danielson, who is Director of the School, and has from the beginning been almost solely responsible for this work being done, will present to this convention, a separate report on the School and also on the publication of "Iceland's Thousand Years".

3. Barely two months ago, the Club established a Scholarship Fund, out of which Scholarships may be awarded to outstanding students of Icelandic extraction. The public showed it's approval of this timely venture by supporting this Fund very generously. In fact, so generously that the first scholarship has already been awarded. This was in the form of a travelling scholarship of $1200 to the brilliant young pianist, Miss Snjolaug Sigurdson, to enable her to continue her musical studies in New York. The Club has as yet done nothing to publicize this project and we feel sure that, as the idea become more generally known it will receive wide-spread public support. The Club feels indebted to those outside the Club who volunteered to assist the Committee in establishing the Fund; and also to those who supported it so generously. Those serving on the Committee are Paul Bardal, Mrs. Danielson and Judge W. J. Lindal.

4. The Welcome Home Reception for the Service men and women of Icelandic descent, which the club sponsored jointly with the Jon Sigurdson Chapter of the I.O.D.E. and which was reported last year, cost around $1300. The two organizations feel an overwhelming indebtedness to those public-spirited citizens who acted as patrons for this affair, and made it possible to welcome in a fitting and dignified manner our returned service personnel. Those who so ably represented the club in making the preparations for that fine banquet

were, Judge W. J. Lindal, Holmfridur Danielson, and Dr. L. A. Sigurdson.

In conclusion, I would like to express my appreciation to all my co-workers in the Club who have helped make our work so pleasant and constructive, especiallly my Secretary, Miss Lilja Guttormson, my Treasurer, Mattie Halldorson, and my Social Convenor, Miss Steinunn Bjarnason. Also to those outside the club who have aided us in any way; to the Icelandic Weeklies, to the President of the League, Mr. V. J. Eylands, and to the general public, which at all times has shown genuine interest and suppoort, I extend our heartfelt thanks.

CARL A. HALLSON,
President,
Icelandic Canandian Club

Var skýrslan viðtekin samkvæmt tillögu framsögumannsins sem ritari studdi.

Skýrsla deildarinnar á Gimli lesin af Mrs. H. G. Sigurðson. — Þingskjal no. 7,

**Skýrsla yfir starf þjóðræknisdeildarinnar "Gimli", fyrir árið 1946**

Hér á Gimli lifir alt vel, sem þjóðrækni tilheyrir. Fjórir starfs- og skemtifundir hafa verið haldnir á árinu, allir mjög vel sóttir. Íslensku-skólinn starfræktur með svipuðum hætti og að undanförnu. 50 nemendur sækja skólann. Samkoma var haldin í nóvember með ágætis aðsókn. — Meðlimatala er nú 67. — Í sjóði um áramót $120.00.

Með kærri kveðju til þjóðræknisþingsins. —

Forseti K. I. Johnson
Skrifari I. Bjarnason

Skýrslan viðtekin samkvæmt tillögu J. J. Bildfells, sem A. P. Jóhannsson studdi.

Þá las Mrs. Herdís Eiríksson ársskýrslu deildarinnar í Árborg. — Þingskjal no. 8.

**Skýrsla Þjóðræknisdeildarinnar "Esjan" í Árborg, Man., 1946—'47**

Starfsemi deildarinnar hefir ekki verið margbrotin þetta ár, þó hafa hin venjulegu störf verið rækt.

Bókasafnið hefir verið starfrækt með líkum hætti og að undanförnu. Útlán bóka verið talsvert. Nýjar bækur verið keyptar og sérstakt hús útvegað fyrir bækur félagsins.

Fundir hafa verið fáir; hefir það dregið úr fundarhöldum, að tæplega hefir verið hægt að sækja fundi í vetur sökum ótíðar, og brautir út um landsbygðina ófærar. Til dæmis, hefir enn ekki verið hægt að koma við að hafa ársfund í vetur.

Á fundum deildarinnar hefir verið bent á, hve nauðsynlegt væri að styrkja ungfrú Agnesi Sigurdson við hljómlistarnám hennar í New York, hefir einn meðlimur deildarinnar góðfúslega tekið að sér að taka á móti tillögum í þann sjóð.

Skuldlausir meðlimir deildarinnar eru nú 59 að tölu.

Nýbyrjað er að æfa íslenskan leik, sem vonast er til að hægt verði að sýna með vorinu.

Engin fjármálaskýrsla er til reiðu, þar sem enginn ársfundur hefir verið haldinn.

Herdís Eiriksson
ritari.

Gerði Einar Haralds þá tillögu að skýrslan sé samþykt. Till. studd af T. J. Gíslason: Samþykt.

Skýrsla deildarinnar Aldan, Blaine, Wash., lesin af ritara. — Þingskjal no. 10.

**Starfsskýrsla frá þjóðræknisdeildinni "Aldan", að Blaine, Washington fyrir árið 1946**

Þjóðræknisdeildin Aldan telur nú 62 gilda meðlimi, og starf hennar í aðaldráttum á hinu liðna ári er sem hér segir:

Fjórir almennir fundir hafa verið haldnir.

Tveir stjórnarnefndar fundir.

Tvær skemtisamkomur, ásamt hátíðahaldi þann 17. júní s. l.

Íslenskukenslu skólinn var starfræktur í þrjá mánuði ársins, og voru innskrifaðir 26 nemendur, síðan var skólinn lagður niður vegna oflítillar þátttöku.

Elliheimilis málið er víðtækt og í því ríkir almennur áhugi, það eru allmiklar líkur til, að byrjað verði á að byggja heimilið á þessu ári.

Fjármál deildarinnar eru í góðu lagi, hún hefir borgað fyrir 50 ársrit og staðið allan nauðsynlegan kostnað af starfi þeirrar nefndar sem sér um framkvæmdir á elliheimilis-byggingunni. Í Elliheimilissjóð eru nú komnir töluvert yfir tuttugu þúsund dalir, og fyrir heila blokk af landi, sem keypt var nýlega fyrir eitt þúsund dali, var borgað þá þegar með sérstakri peningagjöf frá fólki í Blaine og Bellingham, í deildarsjóði nú sem stendur eru um eitt hundrað dalir. Allir eru nú vinsamlega ámintir um, að vilji þeir vera með í því, að leggja til þessa göfuga fyrirtækis, að senda sem allra fyrst sínar gjafir til féhirðis elliheimilisnefndarinnar,

herra J. J. Straumfords að Blaine, Wash. Hver veit nema þið þurfið að hvíla ykkur á elliheimilinu í Blaine, þegar ellin gengur í garð.

Nánari skýringar á starfi Öldunnar hafa verið birtar nýlega í Heimskringlu og Lögbergi.

Guðm. P. Johnson, ritari.

Viðtekin eftir tillögu ritara, sem dr. Beck studdi.

Friðrik P. Sigurðsson greindi munnlega nokkuð frá ástandinu í Riverton. Kvað hann deildina þar með litlu lífi en hélt að vegur gæti greiðst til að endurlífga hana.

Till. J. J. Bildfells, studd af Mrs. Salome Backman, að Friðriki P. Sigurðssyni sé veitt málfrelsi á þinginu en þar sem hann sé ekki kjörinn fulltrúi deildarinnar í Riverton, geti hann ekki farið með atkvæði deildarinnar á þinginu.

Einar Magnússon lagði fram munnlega skýrslu fyrir hönd deildarinnar í Selkirk. Skýrði meðal annars frá því, að bæði forseti og vara-forseti deildarinnar hefði látist á árinu; hefði því deildin verið framkvæmda smá á þessu ári. Ársfundur hafði samt verið haldinn og nefnd kosin til að halda í horfinu.

J. J. Bildfell lagði til að skýrslan væri samþykt og var sú tillaga studd af G. L. Jóhannssyni: Samþykt.

Ritari lagði til, að ritara og forseta sé falið að votta deildinni í Selkirk og sifjafólki hinna ágætu félagsbræðra samhygð þingsins í tilefni af fráfalli þeirra. Till. studd af dr. Beck og samþykt.

Kvaddi nú forseti herra Valdimar Björnsson frá Minnapolis til að ávarpa þingið og flytja því þær kveðjur er honum höfðu verið á hendur falið.

Ávarpaði Mr. Björnsson nú þingið með stuttri en einkar snjallri ræðu. Gat hann þess fyrst og fremst, að sumargestirnir að vestan hefðu komið okkur Vestur-Íslendingum fram til sóma og verið hvarvetna vel fagnað á Íslandi.

Hann gat þess einnig, að nú væri ættlandið mjög breytt frá því sem útflytjendurnir þektu það fyrir aldamótin. Gat hann þess að um 40.000 hermanna mundu hafa verið á Íslandi meðan Bandaríkin og Canada hefðu haft þar mest lið. Samkomulagið milli setuliðsins og hersins hefði yfir höfuð að tala verið gott eftir kringumstæðum og farið batnandi. Hefðu hermennirnir notið hinnar mestu gestrisnis af hendi landsmanna.

Þá bar hann fram kveðjur frá ríkisstjórn Íslands munnlega; ennfremur frá Thors Thors sendiherra í Washington. — Þingskjal no. 11.

Herra Valdimar Björnsson,
c.o. Icelandic Consulate,
910 Palmerston Avenue,
Winnipeg, Manitoba,
Canada

Kæri Valdimar:

Eg vil hér með biðja þig að flytja Þjóðræknisþingi Vestur-Íslendinga mínar innilegustu kveðjur og óskir um áframhaldandi glæsilegt starf Þjóðræknisfélagsins í hinni þýðingarmiklu viðleitni þess, að efla og treysta vináttuböndin milli Íslendinga austan hafs og vestan.

Kærar kveðjur.

Þinn einlægur,

Thor Thors.

Var þeim kveðjum tekið með miklum fögnuði.

Las nú dr. Beck kveðju frá forseta ríkisskólans í Norður Dakota. — Þingskjal no. 12. —

February 21, 1947

Dr. Richard Beck,
University Station,
Grand Forks, North Dakota

My dear Dr. Beck:

I have been informed that you will be leaving for Winnipeg during the weekend to attend the annual convention of the Icelandic National League of America.

Please convey greetings and good wishes to the convention on behalf of the University of North Dakota and myself personally. May I also ask you to express to the officers and members of the League my appreciation of the Honorary Membership conferred upon me at the annual convention last year. I prize this honor highly and consider it a splendid gesture of good will toward the University.

It has been my privilege for years to work with and enjoy the friendship of many people of Icelandic nationality. We of the University are proud of the fine record made there by students of Icelandic origin and of the fact that many of our most distinguished graduates come from that group. You, too, have equal right to take pride in their achievements, worthy of the great cultural traditions of the land of their forbears.

With sincere wishes for continued

success of the significant work of the League.

Cordially yours,
John C. West
President

Fór dr. Beck ennfremur nokkrum orðum um ríkisháskólann í Grand Forks. Gat þess að við þann skóla myndu fleiri Íslendingar hafa notið náms en við nokkra aðra hærri mentastöð í Ameríku. Höfðu þeir með námi sínu og framkomu þar mjög aukið álit þjóðarinnar og nytu enn þess hróðurs er þeir hefðu sér getið.

Þar næst bar doctorinn fram munnlega kveðju frá herra Árna G. Eylands.

Þá las forseti upp kveðjur frá dr. Helga Briem. — Þingskjal no. 13, — og einnig frá biskupnum yfir Íslandi og Ingólfi lækni Gíslasyni. — Forseta var falið að svara þeim kveðjum. Skeytin frá biskup og lækni, hafa aldrei verið afhend ritara.

21. febrúar 1947.

Forseti Þjóðræknisfélagsins
séra Valdimar Eylands,
Winnipeg.

Kæri séra Valdimar.

Þar sem þjóðræknisþingið stendur nú fyrir dyrum leyfi ég mér að senda þér, þinginu og Þjóðræknisfélaginu, ásamt öllum deildum þess og félögum, hugheilar óskir um ánægjulegt þing og gæfuríkt starf félagsins, á ókomnum árum, eins og hingað til.

Þinn einlægur,
Helgi P. Briem.

Ritari las kveðju og heilla-óska-bréf til þingsins frá deildinni Aldan í Blaine. — Þingskjal no. 14. —

### Heillaóskir til Þjóðræknisfélagsins

Þjóðræknisdeildin "Aldan", að Blaine, Washington, sendir hinu tuttugasta og áttunda ársþingi Þjóðræknisfélags Íslendinga í Vesturheimi, sínar innilegustu heillaóskir.

Ánægjulegt hefði Öldunni þótt, að geta sent erindreka á þetta þing, en fjarlægðin er of mikil, og fjárhagurinn ekki nægilega sterkur til þess.

Aldan vonar og treystir, að vel rætist fram úr öllum þeim málum, sem lögð verða fyrir þetta þing og í framkvæmdum verði þróttur og áhugi fyrir auknu og víðtækara þjóðræknisstarfi, einnig að vinaböndin milli vestur- og austur-Íslendinga megi verða sterkari en nokkru sinni fyr.

Ritað að Bellingham, Wash., 20. febr. '47.
A. E. Kristjánsson, forseti
G. P. Johnson, ritari.

Sömuleiðis las hann kafla úr bréfi frá forseta sambandsdeildarinnar í Seattle þar sem vikið er að því, að hentugra myndi fyrir þá á Ströndinni að sækja þingið ef það væri haldið snemma sumars. —

Þá gerði J. J. Bildfell þá tillögu, að forseti skipi í nauðsynlegustu nefndir. Till. stutt af H. T. Hjaltalín: Samþykt.

Skipaði þá forseti í þessar nefndir:

Í útbreiðslumálanefnd: Dr. R., Beck H. T. Hjaltalín, Mrs. H. G. Sigurdsson, J. J. Bildfell og Einar Sigurðsson.

Í fræðslumálanefnd: Mrs. H. Danielsson, H. Olafsson, Aldis Pétursson, T. J. Gíslason og Jónatan Tómasson.

Í nefndina um kennarastól í íslenskum fræðum við háskólann í Manitoba:

Séra Philip M. Pétursson, G. L. Jóhannsson og Guðmund Feldsted.

Mrs. H. Danielsson las upp skýrslu yfir afkomu útgáfu fyrirtækisins "Iceland Thousand Years". Sýndi sú skýrsla hina ákjósanlegustu afkomu. — Var skýrslan viðtekin samkvæmt tillögu Einars Haralds sem G. L. Jóhannsson studdi: Samþykt.

Gerði J. J. Bildfell nú þá uppástungu að fundi yrði frestað til kl. 10 fyrir hádegi næsta dag. Tillagan studd af mörgum og samþykt.

Fundi slitið.

A kvöldi þessa dags hélt The Icelandic Canadian Club mikið samkvæmi í Fyrstu lútersku kirkjunni. Þar hélt prófessor Freeman frá Norður Dakota afar fróðlega ræðu um Ísland og sýndi litmyndir af ýmsum stöðum á Fróni. Var ræða hans alment rómuð fyrir fróðleik og flutning góðann.

Auk ræðunnar var söngur og hljóðfærasláttur til skemtunar.

Þriðji fundur þingsins settur í Góðtempl arahúsinu kl. 10 f.h., 25 febrúar.

Fundargjörð síðasta fundar lesin og samþykt án breytingar.

Skýrsla frá deildinni Snæfell, Churchbridge lesin af Einari Sigurðssyni. — Þingskjal no. 15. —

### Ársskýrsla þjóðræknisdeildarinnar "Snæfell" fyrir árið 1946

Félagsstarfið hefir hvorki verið athafnaríkt né umfangsmikið á liðna árinu. Þeim fækkar nú ört löndunum hér um slóðir. Frumbyggjarnir falla í valinn hver á fæt-

ur öðrum, en yngra fólkið flytur til annara héraða, eða öllu heldur til borgar og bæja, víðsvegar um landið, og það hlýtur óhjákvæmilega að setja merki sitt á íslenska félagslífið í bygðinni.

Ekki hefir þó deildin lagt árar í bát enn sem komið er, heldur reynt að halda í horf inu eftir föngum, og leitast við að ljá lið þeim málum, sem í þjóðræknisáttina stefna.

Þrír starfsfundir hafa verið haldnir á árinu og einnig gekst deildin fyrir því, að haldin var þjóðminningar-samkoma — Íslendingadagur — á síðastliðnu sumri. En aðalstarfið hefir nú, eins og að undanförnu lotið að því að auka og endurbæta bókasafnið, eftir því sem fjárhagurinn hefir leyft, og munu útlán úr bókasafninu hafa verið álíka og að undanförnu.

Samkvæmt skýrslu féhirðis urðu tekjur á árinu, að viðlögðum sjóði síðasta árs $50.71, en útgjöld $29.30. — Eftirstöðvar til næsta árs $21.41.

Fyrir hönd deildarinnar "Snæfell"
Þórarinn Marvin, forseti
Einar Sigurðsson, ritari.

Skýrslan viðtekin samkvæmt tillögu dr. Becks, sem Philip Pétursson studdi.

Ásmundur Jóhannsson og dr. Beck fóru nokkrum orðum um Leifs Eirikssonar styttuna og töldu líklegt að einhverjar framkvæmdir myndu gerðar um að reisa styttuna á þessu ári.

Skýrsla frá deildinni "Fjallkonan" í Wynyard lestin af ritara. — Þingskjal no. 16. —

**Skýrsla þjóðræknisdeildarinnar Fjallkonan á Wynyard, Sask.**

Tvo starfsfundi hélt deildin auk Ársfundar á liðnu ári. Einnig stóð deildin fyrir hátíðahaldi 17. júní. Ræðumenn dagsins voru Guttormur J. Guttormsson frá Riverton, Man og Árni Sigurdson frá Seven Sister-Falls, Man, frumort kvæði var flutt eftir skáldið Tobias Tobiason. Æfður söngflokkur undir stjórn próf. S. K. Hall. skemti með söng. Samkoman var vel sótt og vel rómuð af öllum á eftir.

Þegar það fréttist að Karlakór Reykjavíkur kæmi til Winnipeg og syngi í Winnipeg í tvö kvöld í Civic Auditorium í staðinn fyrir eitt eins og auglýst var, gekst deildin fyrir því að fá niðursett far til Winnipeg; fóru svo samningar að sérstakur vagn — special Coach — var fengin frá Wynyard til Winnipeg. tóku þátt í þessum hlunnindum Íslendingar í vatnabygðum frá Dafoe til Foam Lake. 40 manns tóku far með þessum special Coach og sá enginn eftir þeim túr.

Eru þetta helstu atriði þess sem gerst hefir hér. Deildin varð fyrir þeirri þungu sorg að missa einn sinn mesta og besta þjóðræknis-mann og Íslending, Jón Jóhannsson, sem andaðist 2. febrúar 1947; hafði hann um langt skeið forustu deildarinnar, og var skrifari deildarinnar nokkur seinustu ár til dauðadags. Er stórt skarð höggvið í íslenskan félagsskap í þessari bygð við fráfall hans, því hann var forvígismaður als þess sem íslenskt er og var.

Fjallkonan sendir heilla óskir til þessa þings og árnar heilla þingi og störfum þess.

Skýrslan viðtekin samkvæmt uppástungu G. L. Jóhannssonar, studdri af T. J. Gíslasyni.

Þá bar ritari fram þá tillögu að deildinni í Wynyard og fjölskyldu Jóns sál. Jóhannssonar skyldi vottuð samhygð þingsins út af fráfalli þessa ágæta félagsbróður og mæta Íslendings. Skyldi forseta og ritara falið, að skrifa þetta samhygðar skeyti og koma því á framfæri. Till. studd af dr. Beck og samþykt.

Herra Ólafur Pétursson skýrði munnlega frá störfum milliþinganefndarinnar í málinu um fyrirhugað samkomuhús í Winnipeg. Lausleg áætlun um kostnað $150.000. Ritari lagði til að fimm manna þingnefnd yrði skipuð í málinu. Till. studd af Einari Haralds og samþykt. Útnefningu frestað.

Þá bar Mrs. B. E. Johnson, í forföllum eignimanns síns, fram skýrslu minjasafnsnefndarinnar. Gat hún þess, að engvir munir hefðu borist til nefndarinnar til viðbótar við safnið.

Skýrslan viðtekin samkvæmt tillögu ritara sem T. J. Gíslason studdi.

Skýrsla frá deildinni í Brown lesin af T. J. Gíslasyni. — Þingskjal no. 17. —

**Til Þjóðræknisfélags Íslendinga í Vesturheimi**

Morden, Man., febr., 1947.

Skýrsla deildarinnar Ísland 1946.

Aðeins 4 fundir haldnir á árinu 1946. — Aðsókn að fundum var góð, og þeir voru ánægjulegir.

Meðlimatala deildarinnar lík og að undanförnu; samt mistum við meðlimi, er burt úr bygðinni fluttu.

Deild vor varð 25 ára gömul á síðastliðnu ári. Við ætluðum okkur að halda upp á afmæli deildarinnar með skemtilegri samkomu, fá utanbygðar mælskumenn eða

konur til að skemta. Kusum nefnd til að annast þessa samkomu, og kom hún nokkrum sinnum saman. Ákvað að hafa samkomuna í júlímánuði síðastliðnum. En vegna ástæðna sem við réðum ekki við, drógst þetta of lengi, svo kom annríki við uppskeru og að lokum varð ekkert úr þessari ráðagjörð. Embættismenn kosnir fyrir 1947, eru:

Forseti Vilhjálmur Olafsson.
Ritari Miss Guðrún Thomasson.
Fjárm.-ritari Jónatan Thomasson.
Féhirðir T. J. Gíslason.

Virðingarfylst.
T. J. Gíslason.

Skýrsla viðtekin samkvæmt tillögu Einars Haralds, sem G. L. Jóhannsson studdi.

Þessir skipaðir í þingnefnd í húsbyggingarmálinu:

G. L. Jóhannsson
Mrs. E. P. Johnson
Richard Beck
E. H. Fáfnis og
G. J. Oleson.

Skýrsla hinnar nýstofnuðu deildar á Lundar lesin af Mrs. L. Sveinsson. — Þingskjal no. 18. —

**Lundar-deildin**

Herra forseti!

Þessi skýrsla verður hvorki löng né efnismikil. Okkar "deild" er ekki nógu gömul til að hafa neina sögu á bak við sig. Hún var stofnuð 18. febrúar í haust, af séra V. Eylands, forseta Þjóðræknisfélagsins, séra Halldór Jónsson skrifara, séra Egill Fáfnis og Dr. Richard Beck.

Fundurinn eða réttara sagt samkoman, var afbragðs skemtileg. Allir viðstaddir voru mjög hrifnir af ræðu dr. Beck, og söng séra Fáfnis. Einnig voru prestarnir mjög skemtilegir. Að enduðu programi, var deildin mynduð. 29 meðlimir gengu í félagið, og 2 bættust við seinna. Embættismenn fyrir hina nýju deild voru þar næst kosnir. Forseti séra Halldór Jónsson. Ritari Mrs. Sveinson. Féhirðir Skúli Sigfússon.

Fyrsti fundur eða réttara sagt ársfundur deildarinnar, var haldinn 8. jan. 1947. Voru embættismenn endurkosnir. En varamönnum bætt við; August Eyjólfsson varaforseti, Mrs. Ganton vararitari, og Mrs. Hofteig vara-féhirðir. Urðu töluverðar umræður um nafn handa deildinni, en að lokum voru allir ásáttir um að hún yrði nefnd Lundar-deild. Einnig var ákveðið að halda sex fundi á ári. Mrs. L. Sveinson og Mrs. Kristín Pálsson voru kosnar fyrir erindreka á þingið.

Séra Halldór færði það í tal á þessum fundi, að það væri mjög vel viðeigandi að deildin byrjaði sitt starf, með því að koma á stað samtökum um að halda upp á 60 ára afmæli Álftavatns- og Grunnavatnsbygðanna næsta sumar. Það mun vera 60 ár næsta júlí síðan fyrstu íslendingar námu þar land.

Var fundurinn því meðmæltur og var ákveðið að halda opinn fund 19. febrúar og leita samvinnu við önnur félög bæjarins.

Fundurinn 19. febrúar var vel sóttur. — Mættu þar fulltrúar frá flestum félögum bygðarinnar. Voru allir ásáttir um að halda upp á afmæli bygðarinnar. Var kosin 9 manna nefnd til að vinna að því, og er búist við, að bráðlega verði tekið til starfa.

Meðlimatala okkar nú, er 19; við höfum ekki getað náð til allra okkar meðlima fyrir snjóþyngslum og vondu veðri.

Eg óska og vona, að starf okkar geti orðið til þess, þó ekki sé nema á örlítinn hátt, að styðja að viðhaldi íslenskunnar hér.

L. Sveinson, ritari.

Skýrslan viðtekin samkvæmt till. C. Indriðasonar sem J. J. Bildfell studdi.

Bar þá Einar Haralds, formaður kjörbréfanefndarinnar fram þá viðaukaskýrslu, að komnir væru til þingsins þessir fulltrúar, auk þeirra, er komnir voru áður: Pétur Thorsteinsson frá deildinni Fjallkonan í Wynyard og Thor Lifmann frá deildinni Esjan í Árborg. — Skýrslan viðtekin eftir tillögu Mr. Einars Haralds, sem ritari studdi.

Var svo fundi frestað til kl. 2 e. h.

Fjórði fundur þingsins settur kl. 2 e.h.

Fundargerð síðasta fundar lesin og samþykt.

Skýrsla deildarinnar "Báran" í Dakota lesin. — Viðtekin samkvæmt tillögu Guðmundar Feldsted, sem Jónatan Thorarinson studdi. — Þingskjal no. 19. —

**Skýrsla deildarinnar "Báran" fyrir árið 1946**

Á árinu hafa verið haldnir margir nefndarfundir, og einn almennur ársfundur. Áhugi fyrir þjóðræknismálum virðist vera eins mikill og að undanförnu.

Íslensku-skólinn byrjaði í júlí á Garðar, undir umsjón frú R. H. Ragnar. Þrjátíu börn sóttu skólann að meðaltali; kennarar voru sex.

Mountain skólinn byrjaði um það leyti, undir umsjón frú H. Olafson, nemendur voru um þrjátíu, og sex kennarar mest af tímanum. En því miður varð að hætta við skólann í ágúst, því Polio-veikin kom, og læknar bönnuðu alla skóla og samkomur. Fjórar skemtisamkomur voru hafðar á árinu, tvær á Monutain, ein á Garðar og sú síðasta í Cavalier. Það var auðvitað besta samkoman, því þar skemtu þessir snillingar: Karlakór Reykjavíkur, og þeirri stund verður ekki með orðum lýst, hvaða ánægju við höfðum af komu þeirra.

Samkomurnar voru allar góðar og vel sóttar. Á þessu síðastliðna ári hafa tveir meðlimir deildarinnar dáið, Sveinn Johnson og Ingi Pálson. Minnumst við þeirra með virðingu. — Meðlimatala deildarinnar í árslok var 126.

| | |
|---|---|
| Ágóði á árinu | $356.78 |
| Í sjóði 1. jan. 1946 | 175.48 |
| Samtals í sjóði 1. jan. 1947 | $532.26 |

Í núverandi stjórnarnefnd eru þessir: R. H. Ragnar forseti, séra E. H. Fáfnis vara-forseti, H. B. Grímson ritari, K. Kristjánsson vara-ritari, C. Indriðason féhirðir, B. Stefánson vara-féhirðir, Steve Indriðason fjármálaritari, Crist Guðmundson vara-fjármálaritari, Haraldur Olafson skjalavörður. — Yfirskoðunarmenn eru G. J. Jónason og Haraldur Gíslason.

Gardar, N.-Dak., 22. febr. 1947.

K. Kristjánsson, ritari.

Skýrsla deildarinnar "Grund" í Argylebygð lesin. — Skýrslan viðtekin eftir uppástungu ritara, sem Magnús Gíslason studdi. — Þingskjal no. 20. —

### Deildin Grund í Argyle-bygð 1946

Það mun mikið spursmál um það, hvort deildin Grund í Argyle-bygð hefir nokkurn tilverurétt þegar litið er yfir starfið síðastliðið ár, og í raun og veru hefir hún það, ekki nema ef vera skyldi fyrir það, að hjá nokkrum mun vera sterkur ásetningur að gjöra meir í framtíðinni.

Síðastliðið ár hefir verið mikið annríkisár, og lítill tími að sumrinu til að sinna félagsmálum, en aftur að vetrum, sérstaklega þegar snjóþyngsli eru mikil eins og verið hefir undanfarna tvo vetur, er því sem næst ókleyft að fá fólk saman um svo stórt svæði, sem um er að ræða. Sérstaklega þar sem þjóðræknis-áhuginn er nú ekki eldheitur nema hjá einstöku mönnum eins og mun vera tilfellið meðal Íslendinga víðsvegar.

Deildin hafði aðeins einn fund á árinu. Var hann ekki fjölsóttur, en mátti heita ágætur fundur. Auk almennra fundarmála. flutti G. S. Johnson erindi, Th. Sveinsson fór með íslensk kvæði. Sömuleiðis hafði J. A. Sveinson yfir nokkur ísl. ljóð. G. J. Oleson flutti stutt erindi um þjóðrækni. Mælti fram nokkra ísl. málshætti og smellnar vísur, og fór um hvorttveggja nokkrum orðum.

Ákveðið var að halda samkomu með vorinu og fá aðkomandi áhrifamikinn ræðumann til uppbyggingar og skemtunar.

Bygð okkar á marga heilsteypta þjóðræknis sinnaða menn og konur, en skortir áhrifamikla leiðtoga. Við erum flestir steyptir í sama mótinu, til þess að kveikja bjarta þjóðrækniselda, eða jafnvel hvaða bjarta elda sem er, þarf afburðamenn.

Margir lesa enn mikið af íslensku, bæði blöð og bækur, en kaup á ísl. bókum fer þverrandi með hverju ári, þó mun okkar bygð eins íslensk og flestar bygðir.

Íslensku kensla fór fram í Baldur s. l. ár í smáum stíl. Má eins vel kannast við það að sá dagur er liðinn hjá sem slíkt eða tilraun við slíkt getur komið að miklu haldi. Fyrir ýmsar ástæður er ókleyft að vinna nokkuð að gagni á því sviði. Áhugi fólks er lítill og mjög erfitt að fá kennara. Memlimir deildarinnar vilja af fremsta megni styðja þjóðræknisstarfið, heilbrigt og heilsteypt, og styrkja og viðhalda því góða og listræna í íslenskum menningarerfðum.

Deildin gaf á árinu $25.00 í Agnesar Sigurðssonar-sjóðinn.

Dagsett að Glenboro, Manitoba,
22. febrúar 1947.

G. J. Oleson, ritari.

Var þá lesið nefndarálit þingnefndarinnar í útbreiðslumálum. Þingskjal no. 21.

### Nefndarálit þingnefndar í útbreiðslumálunum

Þingnefndin í útbreiðslumálum er sér þess meðvitandi, hvert grundvallaratriði þau mál, ásamt fræðslumálunum, eru í starfi félagsins. Ennfremur gerir hún sér ljóst, að þær tillögur, sem hér eru bornar fram varðandi útbreiðslumálin, verða eigi framkvæmdar án nauðsynlegra og samsvarandi fjárframlaga. En nefndin telur að því fé, sem lagt er til þeirrar starfsemi, sé ágætlega varið, þar sem um er að ræða

sjálfa framhaldstilveru félagsins og framhaldandi varðveislu menningarverðmæta vorra.

1. Þingið fagnar stofnun deildar að Lundar og undirbúnings að stofnun deildar á Hayland, Manitoba, og þakkar forseta og öðrum stjórnarnefndarmönnum viðleitni þeirra í útbreiðslumálum, sem og öðrum þeim, er lagt hafa þeim málum lið.

2. Þingið lýsir ánægju sinni yfir þarfri og þakkarverðri fyrirlestrarstarfsemi Icelandic Canadian Club, sem undanfarið hefir einkum miðað að því, að fræða yngri kynslóð vora um íslenska landnema vestan hafs, sögu þeirra og starf, og með þeim hætti glætt áhugann fyrir menningararfleifð vorri og þjóðræknismálunum.

3. Þingið vottar íslensku vikublöðunum í Winnipeg og ritstjórum þeirra þökk fyrir starf þeirra í þágu útbreiðslustarfsemi félagsins með mörgum hætti, svo sem með tilkynningum, frétta- og ritstjórnargreinum um þau mál.

4. Þingið felur væntanlegri framkvæmda nefnd að leita fyrir sér um stofnun deildar að Langruth og annarsstaðar þar, sem mögulegt kann að vera að koma á deildarstofnun.

5. Þingið beinir því til framkvæmdarnefndar, að aukna áherslu verði að leggja á það, að stuðla að starfi deildanna með heimsóknum af hálfu nefndarm. eða þar til kjörinna sendiboða í umboði hennar, og með því að vera deildunum liðsinnandi um útvegun starfskrafta á samkomur. Er þetta sérstaklega aðkallandi að því er varðar þær deildir, sem erfitt eiga uppdráttar vegna mannfækkunar, fjarlægðar eða annara örðugleika. Í því sambandi vill nefndin mæla með því, sem hreyft var á þinginu í fyrra, og forseti benti á í skýrslu sinni, að félagið ráði sér launaðan útbreiðslustjóra, sem ferðist milli deildanna og dvelji hjá þeim um tíma eftir þörfum. Þar sem útbreiðslu og fræðslumálin eru svo náskyld og samanofin, mætti að líkindum að einhverju eða eigi litlu leyti sameina starf slíks útbreiðslustjóra starfi umsjónarmanns félagsins í fræðslumálum, sem réttilega hefir verið rætt um, að við þyrfti í þeim málum.

6. Nefndin vill að nýju vekja athygli þingsins, og þá sérstaklega framkvæmdarnefndar og deilda, á hugmyndinni um gagnkvæmar heimsóknir deildanna, þar sem því verður viðkomið vegna fjarlægðar. En með því er átt við, að hópur manna úr deildum heimsæki hver aðra og taki þátt í skemtiskrá hvorrar annarar. Hefir þetta gefist vel í ýmsum öðrum félögum, og var reynt í framkvæmd af sumum deildum vorum fyrir fáum árum, með nokkrum árangri.

7. Nefndin vekur einnig athygli framkvæmdarnefndar á því, að mjög gagnlegt myndi, ef hægt væri að útvega til láns, leigu eða kaups kvikmynd af Íslandi í litum til notkunar í útbreiðsluferðum og til sýningar á samkomum deildanna. Ennfremur vill nefndin beina til framkvæmdarnefndar þeirri athyglisverðu hugmynd, hvort eigi myndi unt að láta gera skuggamyndir — slides — af íslenskum sögustöðum, með gagnorðum enskum skýringum, sem nota mætti til þess sérstaklega að draga athygli yngri kynslóðar vorrar að sögu lands vors og menningu, bæði í útbreiðslu- og fræðslustarfsemi félagsins.

Á þjóðræknisþingi, 25. febr. 1947.

Mrs. H. G. Sigurdson, Richard Beck
H. T. Hjaltalín J. J. Bildfell
Einar Sigurðsson

Ritari lagði til en G. L. Jóhannsson studdi, að nefndarálitið væri rætt lið fyrir lið: Samþykt.

Fyrsta grein samþykt án umræðu.

Önnur grein sömuleiðis.

Sömuleiðis þriðja grein.

Fjórða grein samþykt, engar umræður.

Fimtagreinin var all mikið rædd og voru allar raddir því hlyntar, að tilraun skyldi gerð samkvæmt því, sem í greininni stendur. Síðan var greinin samþykt í einu hljóði.

Sjötta grein samþykt án umræðu.

Sjöunda greinin nokkuð rædd og síðan samþykt.

Var svo nefndarálitið samþykt í heild sinni eftir uppástungu H. T. Hjaltalíns sem C. Indriðason studdi.

Þá las ritari Fróns skýrslu deildarinnar. — Þingskjal no. 22. —

**Skýrsla deildarinnar Frón yfir árið 1946**

Svo sem að undanförnu hefir aðalstarf deildarinnar verið falið í því, að sjá um undirbúning Íslendingamótsins og starfrækslu bókasafnsins.

Hvað hið síðara snertir, vísast til skýrslu bókavarðar, Davíðs Björnssonar, sem alla reiðu hefir verið lögð fyrir þingið. Ekki er samt úr vegi að geta þess að ómögulegt hefði verið að gera eins mikil bókakaup á árinu og raun varð á, ef að bókavörður hefði ekki litið eftir safninu endurgjaldslaust. "Frón" vill votta Davíð Björnssyni bestu þakkir fyrir þetta starf.

Íslendingamótið í fyrra tókst ágætlega. Aðalræðumaður var Ingólfur Gíslason, læknir, og þótti víst flestum unun að hlýða á hann og að kynnast honum og konu hans, Oddnýju. Deildin hélt þeim hjónum veislu í Royal Alexandra hótelinu og gaf þeim silfurdisk að skilnaði.

Þá hélt deildin samkomu í fyrra haust þar sem Guttormur Guttormsson skáld skemti af sinni alkunnu snild.

Útbreiðslufundir og félagsfundir urðu ekki eins margir, ýmsra orsaka vegna, og verið hefir stundum. Úr þessu verður reynt að bæta eftir getu.

Meðlimatala er svipuð og verið hefir eða um 220.

Fjárhagur deildarinnar er góður. Deildin er skuldlaus og á ekkert í sjóði.

Virðingarfylst.

H. Thorgrímsson
ritari "Fróns".

Skýrslan viðtekin eftir tillögu H. Olafssonar, sem Einar Haralds studdi.

Þá las ritari skýrslu frá deildinni "Iðunn" Leslie. — Var hún viðtekin eftir tillögu Dr. Becks, sem Einar Sigurðson studdi. — Þingskjal no. 23. —

**Skýrsla "Iðunnar", að Lesle, Sask.**

Deildin Iðunn, vill hérmeð flytja þjóðræknisþinginu sínar bestu óskir um ánægjulegt og farsælt starf á þessu 28. ársþingi félagsins.

Deildin hefir ekki verið mjög athafnarík þettað s. l. ár, en er þó enn á lífi, er að nokkru leyti komin á ellistyrks-tilverustig og þá er nú oftast slegið við slöku. Aðalstarfið falist í að viðhalda bókasafninu. Það hefir verið vel hirt og talsvert mikið lesið. Meðlimatala hefir haldist; 20 borguðu ársgjöld sín s. l. ár.

Samkvæmt skýrslu féhirðis stendur fjárhagur deildarinnar þannig: Inntektir að viðlögðum fyrra árs sjóði $44.60. — Útgjöld á árinu $14.78. — Í sjóði hjá féhirði, við áramót $29.82.

Í stjórnarnefnd deildarinnar eru: Forseti: Páll Guðmundsson; ritari: Rósm. Árnason; féhirðir: Jón Olafson..

Deildin vill við þetta tækifæri, votta nágrannadeild vorri að Wynyard sína innilegustu samúð við fráfall Jóns Jóhannssonar er lést að Wynyard 3ja þ. m. Hún á þar að baki að sjá einum af sínum besta starfsmanni. Mun hann jafnan verða talinn í flokki þeirra manna, er unnið hafa af dygð og einlægni að vorum þjóðræknismálum. Hann var heilsteyptur í öllum þeim málum, er hann lagði lið; rökfimur og fastur í skoðunum, unni íslenskum háttum og íslenskum fræðum. Féll þar í valinn merkur og gáfaður maður og drengur góður. Deildin vill einnig votta ekkju og aðstandendum hins látna sína innilegustu hluttekningu.

Að svo mæltu viljum vér í nafni deildar vorrar, óska að starfsemi þingsins og allra þjóðræknismála, megi nú og í allri framtíð, verða Íslendingum til sóma og blessunar.

Leslie, Sask., 20. febrúar 1947.
Rósm. Árnason, ritari.

Þá las ritari kafla úr bréfi frá Rósmundi Árnasyni, ritara deildarinnar "Iðunn". — Þingskjal no. 24. —

Leslie, Sask., 20. febr. 1947.

H. E. Johnson, Lundar, Man.

Kæri vin:

"Aldrei er friður nú á að fara að blessa" og nú verð ég að drífa mig í að skrifa þér nokkrar línur, áður en ársþing okkar kemur saman í Winnipeg. Aðallega er það nú að skýra þér frá, hvað gerst hefir í legsteins-starfinu. Eg ætlaði að ná tali af þér, þegar við vorum báðir staddir í Winnipeg s. l. haust, sá þig snöggvast, en þá hafði ég ekki haft tal af Dr. Austman.

Eftir að ég hafði talað við hann og við svona að mestu leyti komið okkur saman um tilhögun — en þó ekki fastákveðið neitt — merkis yfir grafir þeirra hjóna Guðrúnar og Magnúsar Bjarnasonar, gafst mér aldrei tækifæri að ná tali af þér eða séra Valdimar, og hefði ég þó kosið að ræða við ykkur báða um tilhögun og snið á þessu fyrirhugaða merki.

Eg vil að nokkru leyti reyna að skýra hvað okkur Dr. Austman fór á milli. Þekking og reynsla á þessum hlutum, var öll hans megin, en ég reyndi að falla að því, sem mér fanst mestar líkur til að væri varanlegt og framkvæmanlegt, við þær aðstæður, sem hér var um að ræða. Það, sem við sameiginlega hölluðumst helst að var, að hafa áletraða eirplötu í minsta lagi 12x20 þuml., — ef til vill heldur stærri — greypta í granít-stein á steyptum fótstalli.

Dr. Austman ætlaði að fá frekari upplýsingar um þettað hjá einhverjum er sérþekkingu hefði við legsteinasmíði, einnig ef hægt væri að fá einhverja áætlun um kostnað. Um áletrun á plötunni ræddum við ekki að öðru leyti en því, að ég lagði það til, að þeir dr. Austman og sr. Valdimar réðu fram úr því sameiginlega. Það var

skilningur minn, er ég skildi við Dr. Austman að hann skrifaði Mrs. J. H. Goodmundsson í Elfros, ef hann fengi frekari bendingar, þessu viðvíkjandi, er okkur gætu orðið til stuðnings. Eg símaði Mrs. H. Hornfjörð, áður en ég byrjaði að skrifa þettað bréf, en hún er forseti íslenska kvennfélagsins í Elfros, og spurði hana, ef hún vissi hvort Mrs. Goodmundsson hefði fengið bréf frá Dr. Austman. Kvað hún það ekki hafa verið síðast, er hún átti tal við Mrs. Goodmundsson, en sagði vera alt að mánuði síðan. — Það er illmögulegt að ferðast, hér í kring, svo flestir sitja heima. —

Þettað eru allar þær útskýringar, sem ég get gefið að svo komnu. Snemma s.l. sumar skrifaði ég séra Valdimar, og fór þar fram á að þið gerðuð nokkrar tillögur eða gæfuð okkur bendingar um tilhögun á þessu minnismerki.

Séra Valdimar svaraði um hæl, en sagðist þá vera á förum vestur að strönd og ekki geta náð tali af meðnefndarmönnum sínum, fyr en hann kæmi til baka. Fór hann fram á að við sendum uppdrátt eða lýsingu af fyrirhuguðu merki, fyrir ykkur að athuga, sem aðallega var í sambandi við það, ef þið leggðuð fram peninga þessu til styrktar. Svo kom bréf frá þér, skrifað eftir að nefndin kom saman, en eins og þú veist voru þar engar bendingar að neinu leyti um tilhögun eða form á legsteini eða merki. Var þó í mínu bréfi til séra Valdimars lögð fyrsta áhersla á það, að koma sér saman og ákveða form á merkinu. Eins og þér er kunnugt höfum við hér enga fagmenn í þessari grein og förum því fram á að þið gerðuð tillögur þar að lútandi, þar sem þið hafið betri aðstæður að ráðfæra ykkur við menn, sem sérþekkingu og reynslu hafa á þessu sviði. Eg held að það væri því heppilegt að þið útnefnduð einhverja ráðanauta okkur til styrktar. Það gæti einnig verið nauðsynlegt til að bjarga sóma ykkar nefndarmanna, því við Páll. Guðmundsson komum ár vorri þannig fyrir borð hjá kvennfélaginu, — ykkur óafvitandi — að þær álíta okkur nokkurskonar fulltrúa frá Þjóðræknisfélaginu. — Skömmin getur því skollið á ykkur, ef þið gjörið ekki ykkar besta að styrkja okkur og uppfræða. Eg held að æskilegt væri að þið næðuð tali af Dr. Austman, ef hann hefði einhverjar frekari upplýsingar að gefa.

Að okkar hálfu verður lítið hægt að gjöra í þessu þar til vorar. En vænt þætti mér um að heyra frá þér að þinginu afstöðnu.

Með kærri kveðju og vinsemd.

Þinn einl.

Rósm. Árnason.

Þá lagði Mr. Davíð Björnsson fram skýrslu lestrarfélagsins "Frón". — Þingskjal no. 25. —

**Skýrsla lestrarfélags Fróns**

Ýmsir erfiðleikar hafa staðið eins og þröskuldar í vegi fyrir viðhaldi og framgangi íslenskrar félagsstarfsemi hér vestra sem og lestrarfélaga og þar á meðal lestrarfélags deildarinnar Frón.

Lestrarfélagið hefir haldið vel í horfinu. Bækur flestar eru í ágætu lagi, þó einstaka bækur þurfi viðgerðar, þá má safnið í heild heita í góðu lagi.

Það hafa verið keyptar 75 bækur á árinu fyrir $254.25. Sýnir það að Frón hefir lagt mikla rækt við starfrækslu safnsins. Bókavörður félagsins er Davíð Björnsson. Hefir hann séð um útlán bóka og alla flokkun bókanna endurgjaldslaust, síðan hann tók við því, sem hefir líka verið mikill styrkur til Fróns.

Um 80—90 manns hafa notað safnið á árinu og virðist aðsókn að safninu vera heldur að aukast.

Lestrarfélag Fróns styttir mörgum stundir, fræðir, gleður og glæðir samband milli heimaþjóðarinnar og þjóðarbrotsins vestan hafs.

25. febrúar, 1947.

Davíð Björnsson.

Lagði J. J. Bildfell til að skýrslan sé viðtekin. A. P. Jóhannsson studdi. Samþykt.

Var svo fundi frestað til kl. 10 næsta dags.

Að kvöldi þessa dags efldi deildin Frón til mjög vandaðrar samkomu í Fyrstu lútersku kirkjunni. Var samkoman afar vel sótt. Ræðumaðurinn, Mr. Valdimar Björnsson frá Minneapolis, flutti afar skörulegt og fróðlegt erindi um veru sína á Íslandi og um hersetu ameríska hersins á Fróni. Hefir erindi þetta birst í blöðunum. Auk þess skemti karlakórinn í Winnipeg með söng og Mr. Nordal með einsöng, sem vakti almenna hrifningu. Fleira var þarna til skemtunar og samkoman tókst í alla staði ágætlega.

Fimmti fundur þingsins settur kl. 2 e.h., tuttugasta og sjötta febrúar, 1947.

Fundargerð síðasta fundar lesin og samþykt eins og hún var lesin.

Kvaddi nú forseti Paul Bardal til að skýra þingheimi frá hugmyndinni um byggingu almenns íslensks samkomuhúss í Winnipeg. Varð Mr. Bardal við þeirri kvöð og skýrði vel og greinilega frá hugmyndum þeirra, er áhuga hafa á því máli, og á þörfinni á slíkri byggingu.

Er hann hafði lokið sínu máli, gerði ritari það að sinni tillögu, að fimm manna þingnefnd væri skipuð af forseta. Till. studd af Magnúsi Einarssyni: Samþykt.

Skipaði forseti þessa nefnd þannig:

Olafur Pétursson
Dr. Sig. Júl. Jóhannesson
Paul Bardal
Magnús Gíslason og
Sigurður Einarsson.

Var þá málið um kennimerki tekið fyrir. Kvaddi forseti G. L. Jóhannsson, að skýra málið og gerði hann því góð skil. Talsverðar umræður urðu um málið og las ritari bréf til stjórnarnefndar frá herra Guðjóni Friðrikssyni í Selkirk. Var bréfið þess efnis, að slík merki væru heppileg. — Þingskjal no. 27. —

Selkirk, Man., Canada,
4. febrúar 1946.

Dr. R. Beck, Grand Forks!

Kæri Íslands-vinur og minn!

Eg held þú munir nú ekki ,hvaða dýr eða fiskur það er, sem skrifar þetta bréf — eða rissar — því það er orðið nokkuð langt síðan ég hefi haft þá ánægju að sjá þig. En ég les alt sem þú skrifar í blöðin, bæði í bundnu og óbundnu máli, og fylgist með ánægju með verkum þínum fyrir land og þjóð!

Eg hugsa þú haldir ég sé orðinn elli-ær, þegar þú lest það, sem ég ætla að bera í tal við þig, en það er þetta:

Mér finst Þjóðræknisfélagið hafi gert svo mikið gagn, á tilverutíma sínum, að við þjóðræknisfélagar eigum skilið, að bera merki, sem gefi það til kynna eða sýni það, að við tilheyrum þeim félagsskap, með hnappi eða prjóni. Hvernig það merki ætti að vera, er auðvitað spursmál! Mér hefir dottið í hug handaband, sem heldur 3 flaggstöngum, með flöggum! Íslenska í miðju, en Canada og Bandaríkja sitt hvoru megin. Og áletrun "Bræðralag eða -band! Nú langar mig til að heyra álit þitt á þessari karls-vitleysu, og ef að þú felst á þetta, þá trúi ég engum betur að koma því í framkvæmd en þér. — Eg mintist á þetta við séra Sigurð Olafsson hér í bænum og var hann því hlyntur, og ráðlagði mér að rita þér um það, því hann eins og ég, sagði, að þar væri það best komið!

Skyldi svo fara, að einhver merki yrði búin til, vildi ég leggja það til, að svo stórt yrði upplagið, að hægt væri að senda þjóðræknisfélagi Íslands hluta af þeim, sem þeir vildu!

Eg held nú sé komið nóg af þessu rausi, ég held þú getir ekki lesið þetta pár, því höndin er orðin óstyrk, líka orðinn nokkuð gamall, 78 ára síðastliðið haust! Svo bið ég þig fyrirgefa, og óska þér og öllu þínu skylduliði góðs og farsæls árs.

Þinn með mestu virðingu
Guðjón S. Friðriksson.

Tillaga Miss Vidal, að forseti skipi þriggja manna nefnd í málið. Dr. Beck studdi og var till. samþykt.

Þessir skipaðir í nefndina:

Miss Sigurrós Vidal
Guðmundur Féldsted og
Jón Jónatansson.

Mæltist nú forseti til þess að Isak Johnson frá Seattle ávarpaði þingið og varð hann við þeirri bón.

Þá kvaddi forseti Ásgeir Blöndal frá Reykjavík á Íslandi, til að segja nokkur orð og varð Mr. Blöndal við þeirri hvöð.

Þá lagði Mrs. Danielsson fram skýrslu þingnefndarinnar í fræðslumálum. — Þingskjal no. 28. —

**Skýrsla þingnefndar í fræðslumálum**

Eftir að hafa vandlega íhugað skýrslur þingnefnda í fræðslumálum, 1945 og 1946 og einnig skýrslu forseta, séra V. J. Eylands, flutta á þessu þingi, finnur nefndin til þess, að fræðslumálið er eitt hið allra þýðingarmesta mál þingsins, og álítur að ef það eigi að ná tilgangi sínum verði að gera gangskör að því að skipuleggja starfið tafarlaust og koma því á fastan grundvöll.

Nefndin fellir sig vel við hugmyndina, sem kom fram í forseta-skýrslunni, um að ráða fræðslumálastjóra — og vilja karlmennirnir í nefndinni benda á að heppilegt sé að fræðslumálastjórinn sé kona. —

Nefndin leggur til:

1. Að æskilegt sé, að stofna í sambandi við deildir Þjóðræknisfélagsins, ungmennafélög, sem starfa með svipuðum hætti og Icelandic Canadian Club, þar sem áhersla er lögð á, að fræða unga fólkið, t. d. með fyrirlestrum um Ísland og Ís-

lensk efni og íslenskum myndasýningum, og svo framvegis.

Þessi bending er bygð á þeirri reynslu að það er ónóg að reyna að kenna börnunum íslensku, ef yngra fólkið einkum foreldrar barnanna sjálfra vita ekkert um Ísland og skilja ekki að nauðsyn sé til þess, að læra málið. Slík fræðslustarfsemi yrði til þess að vekja áhuga yngra fólksins fyrir málinu.

2. Að áhersla sé lögð á að æfa íslenska barna-söngflokka í sambandi við íslensku laugardagsskólana.

3. Að nauðsynlegt sé að láta semja og prenta kenslukver sem er við hæfi barna hér, og staðhætti, og sem innifelur ísl. leskafla, á léttu máli, ísl. ljóð og söngva.

4. Að fræðslumálastjóri, sé hann fáanlegur, ferðist meðal deildanna, hafi fundi með kennurunum og skipuleggi starfið, og á annan hátt reyni að koma á fræðslustarfsemi svo sem að ofan greinir.

Aldís Péturson, Hólmfríður Danielson,
Jónatan Thomasson, H. Olafson
T. J. Gíslason.

Till. ritara að nefndarálitið sé rætt lið fyrir lið; stutt af Mrs. Jósephson og samþykt.

Urðu nokkrar umræður um fyrsta lið og hann síðan samþyktur eftir uppástungu T. J. Gíslasonar og J. Ásgeirssonar.

Tillaga ritara, sem Mrs. Jósephson studdi, að annar liður sé samþyktur: — Samþykt án umræðu.

Um þriðja lið urðu talsverðar umræður. Ritari lagði til, að liðurinn væri samþyktur og till. var studd af Mrs. Jósephson.

Mr. J. J. Bildfell lagði til og Jón Ásgeirsson studdi, að þessum lið skyldi vísað aftur til nefndarinnar til þess að færa hann til samræmis við álit útbreiðslunefndar: Samþykt.

Ásmundur Jóhannsson bar fram þá breytingar tillögu, sem margir studdu, að liðnum væri vísað aftur til nefndarinnar: Samþykt.

— Hér ofurlítið vikið frá röð, svo hið samþykta nefndarálit komi í einu lagi. —

Nefndin í fræðslumálum lagði þá fram endurskoðaða liði, þann þriðja og fjórða. Hljóða þeir þannig:

3. liður endurskoðaður af nefndum:

3. Að framkvæmdanefnd Þjóðræknisfélagsins sé falið að athuga hvort hægt sé að fá hentugri kenslubækur til afnota í íslensku skólunum.

4. liður endurskoðaður af nefndinni

4. Að umboðsmanni Þjóðræknisfélagsins, sem samþykt hefir verið að ráða, sbr. 5. lið nefndarálits í útbreiðslumálum, sé falið að ferðast um meðal deildanna, halda fundi með kennurum íslensku skólanna, skipuleggja kenslustarfið og á annan hátt aðstoða við uppfræðslu í íslensku, svo sem að ofan greinir.

Þriðji liður samþyktur samkvæmt till. Miss Vidal, studdri af Ásm. Jóhannssyni. Samþykt.

Till. Guðmundar Hjálmarssonar, sem ritari studdi að nefndarálitið sé samþykt í heild sinni með áorðnum breytingum: Samþykt.

Þá lagði séra Philip M. Pétursson fram álit þingnefndarinnar um háskólastól við Manitoba University. — Þingskjal no. 29.

**Kennaraembætti í íslensku við háskóla Manitobafylkis**

Þessu máli hefir verið haldið vakandi á síðasta ári á þann hátt, sem bent var á í skýrslu forseta, með ritgerðum í blöðunum og með fundarhöldum nefndar sem skipuð er mönnum, útnefndum af hinum ýmsu íslensku félagsskópum hér í bæ. Sú nefnd hefir ekki enn lokið störfum sínum og vill þessi þingnefnd því leggja til að þingið hvetji enn, eins og áður, meðlimi félagsins og aðra Íslendinga til að efla þessa hugsjón með ráðum og dáð, uns framkvæmdum er náð.

Einnig leggur nefndin til að þingið feli stjórnarnefndinni að ljá þessu máli lið sitt á hvern þann hátt, sem henni er unt, í samráði við formælendur þess.

Dagsett 25. febrúar, 1947.

P. M. Pétursson, G. L. Jóhannsson,
G. Féldsted.

Urðu all-miklar umræður um málið. J. J. Bildfell og fleiri hvöttu menn mjög að sinna þessu máli og hrinda því í framkvæmd.

Að þeim umræðum loknum lagði Jón Ásgeirsson til og ritari studdi, að álit nefndarinnar sé samþykt: Samþykt.

Forseti kallaði á Grettir Eggertson frá New York til að flytja þinginu ávarp. Mr. Eggertson ávarpaði þingið nokkrum orðum og bar þinginu kveðjur frá Íslendingafélaginu í New York. Kvaðst hann hafa lært mest af sinni íslensku meðal landa í New York. Ennfremur sagði hann frá fundum Íslendinga-félagsins.

Þá útnefndi forseti þessa í bókanefnd:
Heimir Thorgrímsson
Jón Halldórsson og
Mrs. Salome Backman.

Var nú skýrsla þingnefndarinnar í hús-

